í leyndum skédur. Þegar hann álítur oss í nád, er oss fyrir minnstu, þó oss bresti lofstýr af mønnum, já, sé Gud ánægdur med oss, og ef vor tímanlega lucka krefdi, ad hid góda, sem finna mætti í fari voru yrdi hér kunnugt, veitir hans forsjón alhægt þetta í ljós ad leida. Því skal oss um eckert svo umhugad, sem ad odlast þá fullvissu, ad Gud sje ánægdur med oss. Því skulum vér allt þad ástunda, er þar til verka má, af ollum mætti; vid sérhvert fyrirtæki, í hverju helzt standi, sem vér erum, skulum vér einatt adspyrja vort hjarta: mun Gud vera med þig ánægdur? en verdum vér nockurs þess varir hjá oss, sem bægja megi frá oss Guds nád, edur vér fyrir þad hana missa, skulum vér láta oss hjartanlega ydra þess, hata og fordast þad framvegis, en med stødugum betrunar ásetningi vanda vort líferni á komandi tímanum, og fyrir vor afbrot leita líknar hjá Jesú, fyrir hvers blód, edur pínu og dauda, vér ydrandi vænta megum fyrirgéfníngar, og med þeirri trú odlast fullvissu um nád Guds. Vér skulum einnig kostgæfilega ástunda, ad vardveita þessa lucku, stunda ad allt

vort framferdi ávinni oss vors Guds og Jesú kjærleika; hann sé vort stöduga mark og mid, þá munum vér njótandi verda þeirrar ýfirgnæfandi farsældar, eins í sjálfum daudanum voga ad reida oss á vinfengi Guds. Hvílík blessan mun þad ecki fyrir oss, þá ad mega deya, sem Guds vinir og sem hans óskabörn? þá mun óblöndud gledi fylgja vorri fullvissu um oss fyribúna inngaungu í annann æskilegri heim, hvar Gud eilíflega vera mun vor vinur, og vér eilíflega verdum hans eign.

## 45. Hugvekja.

Herra! bænheyrdu mig á neydarinnar degi, nafnid Guds Jakobs frelsi mig. Ps. 20.

Hverr dagur hefir sína þjáníngu, en sérhverr dagur færir oss einnig sérlega velgjörnínga; til ad sannfærast þar um þarftú, sála mín! einúngis ad samlíkja þinni daglegu eymd, vid þína daglegu lucku; hvad höfum vér daglega ad bera? vér finnum máské til ervidisins þúnga, máske fátæktarinnar ordugleika, vér lídum máské baktal eda órett af mönnum; máské vér finnum hversu þúngt veitir ad bera veikann

líkhama; hversu þúngt að sporna og sjá við syndum, ellegar máske ønnur heimugleg eymd, huld sorg, neyði oss til að qveina og andvarpa járlega. Þó vér nú reyna mættum eitthvað af þvílíkum bágindum, þó oss mættu þau øll sérhvern dag, megum vér samt viðurkenna: að sérhverr dagur ber oss sína blessun. Einn sólar geisli, sem vermir oss, einn dryckur sem svalar oss, einn brauðbiti, sem sefar vort húngur, svefninn, sem endurnærir oss, vinurinn í hvers faðmi vér lifum ánægðir; allt þetta er oss blessun. Sérhvern dag umlíður oss Guðs þolinmæði; sérhvern dag verkar hans Andi í vorum hiørtum; sérhvern dag megum vér biðja vorn Guð; þetta er vor dagleg ánægja; en hversu mikla gleði gefur oss ecki hans margvísleg náðar ráðstøfun? gleðilegar geðþeckar fregnir, fenginn sigur yfir hjarta voru, óvænt heppni og jafnvel þær heillir, sem vér øðlast megum af sjálfu mótlætinu, að verða auðmjúkir, vitrir, þolinmóðir við reynsluna, er allt þetta til samans og hvað eitt sérílagi ecki sannarleg lucka? er þá sérhverr dagur, sem vér lifum, ecki sannur velgjørníngur við

oss? vér segjum: vort líf er stutt, en einn dagur er þó styttri enn allt lífid, og ein þjáníng opt styttri enn heill dagur, en Guds nád varir eilíflega. Ó! ad vér mættum, vid þessar hugleidíngar, venjast af ad qvarta um skør fram, þó eitthvert mótlæti oss ad høndum beri, eda þó vér ecki alltaf bødum í rósum. Ó! ád vér vildum eins nákvæmlega telja fram Guds velgjørnínga vid oss, eins og vér gjørum oss ómak fyrir ad auka vora qvøl og margfalda vorar egin mædur. Engann dag lifum vér þann, ad oss vanti tækifæri til ad íhuga gædsku vors himneska Fødurs; séum vér ad eins eptirtektasamir um hans fødurlegu rádstafanir, munum vér á sérhverjum degi vors lífs, hversu mædusamur og mótlætíngafullur, sem hann verda má, þó finna nóg efni til ad prísa og lofa hann; því ber oss ætíd ad vera ánægdum med hans stjórnun, og í øllum tilfellum halda oss fast vid hann í von og þolinmædi. Ó! mín sál! haldtu þá hóf í øllum umqvørtunum; því hvad er þad, sem hryggir þig? máské jardnesk og fánýt gledi, sem sá Alvísi hefir þig svipt? máské eitthvert óhappa tilfelli, sem Gud baud verda

þér að enn meiri lucku? máské einhver hindran þinnar velgengni, sem seinna má þéna þér til góðs? því viltu þá qvarta og klaga? Nei! —vertú ætíð hughraust og vonaðu á Drottinn; gleymdu því aldrei hvërsu gott Guð gjörir þér, jafnvel þá, er hann þig typtar; yfirvegaðu jafnan þína áqvörðun og tilgáng Guðs með því að bæta þér við í heiminum. Umbreytíngar þíns lífs ega að minna þig á heimsins fallvalta óstødugleika og himinsins óraskanlegu gleði. Senn mun eilífðarinnar dagur upprenna þér og þá mun engin þjáníng, eckért andstreymi framar til vera, heldur einber heill; engar andvarpanir, heldur lofsaungvar einir; þá munt þú gleyma allri sorg, en þó þú minnist hennar, muntú samt gleðja þig þar við, að hverr einn dagur, sem þú lifðir hér, hafði þér til betrunar, þér til uppvakníngar og lærdóms, einnig nockra þjáníngu meðferðis.

# 46. Hugvekja.

Hverr, sem veit nockuð gott að gjøra, en gjørir það ecki, honum er það synd. Jak. 4.

Hversu margar stundir munum vér ecki mega halda tapadar, þegar Herrann loksins krefur reikníngs fyri þær? mun hverr einn af oss þá frammkoma þora fyri Dómarann ad segja: Herra! eg hefi á sérhverri stundú gjørt þad þú baudst mér? má ecki miklu framar margur á medal vor hinu qvída, ad hans sanna játníng verdi: svo margar þúsundir stunda hefi eg aflifad og á medal þeirra svo margar, á hverjum eg hefi eckért gjørt, en eydt miklu fleirum med syndugu athæfi? Hversu margar stundir hefi eg ecki brúkad til ad sedja mínar girndir? og þessar stundir eru tapadar. Hversu margar eru ecki þær stundir, á hverjum eg forsómad hefi þad góda, sem eg var skyldur ad gjøra og hafdi svo opt tækifæri til? og þessar stundir eru tapadar. Hversu mørgum stundum hefi eg ecki varid til ónytsamlegra og jafnvel fáfengilegra fyritækja? og þær stundir eru einnig tapadar. Hversu margar stundir hefi eg ecki brúkad til þvílíkra hluta, sem ad sonnu áttu ad gjørast, en vóru þó ecki gjørdir í þeim tilgángi, ad víðfrægja Guds dýrd og efla vorra medbrædra heillir? einnig

þær stundir eru tapadar. Hversu mørgum stundum eyddi eg ecki til þeirra hluta, sem ad sønnu vóru syndlausir, en urdu syndsamlegir, þared þeir gengu út yfir takmørkin, sem Guds Bodord høfdu mér fyrirsett? og þær stundir eru tapadar. Þegar vér nú einlægl ga ransøkum vort umlidna líf, vóru þá ecki flestar vorar æfistundir þannig á sig komnar? megum vér þá ecki gjøra þá sorglegu játning: ad flestar vorar stundir séu illa sóadar? en hversu margar stundir munum vér eptir ega enn þá, til ad útsóa þannig? munum vér enn þá ega svo margar stundir ó-lifadar, ad vér endurkeypt fáum vora svølludu tíd? máské vér varla enn þá egum eptir áttunda part ad lifa mót þeim stundum, sem vér híngad til eyddum; máské oss nú ad eins sé þessi stund leifd. Æ! látum oss þá brúka þetta augnablik til þess, ad ydrast vorrar vanbrúkunar umlidnu stundanna, og med allri alvørugéfni þenkja til þeirra komandi. Því færri, sem þær vera kunna, því dýrmætari skulu þær oss; med tvøfaldri umhyggju viljum vér þær brúka, og ecki láta oss úr minni lída þann tilgáng, sem vort gjørvalla líf

hafa á, sem er, að búa oss sem best undir þá laungu eilífð, svo að vér í henni øðlast mættum eilífa farsæld. Alltaf viljum vér setja oss Jesú dæmi fyrir sjónir, sem enga eina stund forsómaði af þeim honum géfnar vóru hér á jørðu; ydnir skulum vér vera í því góða, á meðan það heitir enn þá í d a g. Dauðans nótt dregur yfir þegar minnst varir, og þá fær enginn lengur erfiðað, en auðveldlega getur missir einnrar stundar gjørt oss eilíflega ófarsæla. Ecki skulum vér gjøra oss umhyggju um það, þó marga sorgar-stund beri oss að høndum, því framar reyniſt vor dygð, því hreinni verður vor ánægja, því stærri verða vor laun, vér munum finna endurgjald allra velbrúkaðra stunda á síðan í himninum. En þú, ó Jesú! hvers gjørvalla líf var svo óstraffanlegt, og enn hreinna, heldur enn sú stund, hverja hinn heilagasti vor fær best lifað, láttú allann grandvarlegleika, allann verðugleika þíns heilaga lífs, forlíka fyrir allar vorar, til ílls og ónýtis eyddu æfistundir; géfðú oss náð til á þessari stundu og jafnan að hugleiða og gjøra það eina, sem heyri til vors friðar;

einnig þessi stund er vor náðarstund. Gjör þú oss hæfilega til að lifa þannig, að þessi stund verði oss ecki til ótta í dauðanum, né til áfellis fyrir þínum dómstóli í eilífðinni! Bænheyr það, ó Jesú! Amen!

## 47. Hugvekja.

Allir vegir Drottins eru einskær miskun og sannleiki fyri þá, sem varðveita hans sáttmála og vitnisburð. Psálm. 25.

Yfrið mørg dymm og sorgleg tilfelli eru samtvinnuð í voru lífi hér í heimi; vér vitum enn þá ecki, hvert þeir vegir muni oss leiða, á hverjum Guðs forsjón býður oss að gánga. Vér sjáum fyrirætlanir enn þá óframmqvæmdar, torfærur, sem bágar sýnast yfirferðar; vér verðum nockurra tilfella varir með frammtíð, sem virðast gagnstæð náðar-ríkum tilgángi Guðs og ýmislegra útbýtínga, hans velgjørnínga, sem vekja oftt að eins sorglegann eptirþánka hjá oss. Margir vorra meðbræðra í heiminum sýnast oss nád hafa, í ydjuleysi og løstum, ákjósanlegustu lucku, hverja vér, með øllu því ómaki, sem vér til ens sama vørðum, aldrei fáum øðlast. Vér sjáum þarna

einn heilbrigdann midt í svalli og ó-
hófi, en hér annann beygdann af krøm
og veikindum, med allri hans hóffemi.
Vér sjáum einn virdtann, elskadann,
vel metinn, þó med litlum eda engum
yfirburdum yfir hvern óvalinn mann,
en þar á mót margann rádvandann og
dugandis mann af mørgum hatadann,
med allri hans dánumennsku. Þessi
og þvílík tilfelli ens mannlega lífs, leida
oss tídum til sorglegra umþenkínga og
møglunar á móti Gudi. En — þegar
vér náqvæmar yfirvegum allt þetta,
megum vér prísa Gud eins fyri þad,
ad vér finnum adrar røksemdir til þess-
arar guddómlegu rádstøfunar, af hver-
jum vér þeckt faum luckunnar úmbreyt-
íngar betur ad samsvara vísdómi Guds
og gædsku. Þau vøld, sem hinn óverd-
ugi keppist svo ákaft ad ná, eru honum
opt falls ollandi; óhóffsamt svallara
og sælkéra munadarlíf, verdur ein-
hverntíma ólifjan hans heilsú; vidhøfn
og stærilæti hins drambsama vard ad
einberum hégóma; heimsins hól og
hrósanir steyptu hinum metordagjarna
ónytjúngi, og útvortis lucka órádvand-
ra, bjó sjálfum þeim hastarlega biltu,
þá minnst vardi. O þú alvísa for-

sjón! ecki viljum vér lengur lasta þín-
ar rádstafanir, hversu óljósar, sem þær
á stundum virdast vorum skammsýna
skilníngi, því myrkari, þvíhuldari, sem
þinn tilgángur er oss, því farsælli
mun hann oss reynast; ecki skal þad
oss ángra, þó oss finnist þínir vegir á
stundum krókóttir, heldur gjøra oss
rólega vid yfirvegun margra þeirra
dæma, sem vér á stundum sjáum fyri
augunum, og þó helzt þeirra, sem vér
heyrum opinberada í þínu ordi; þau
dæmi hefir þú géfid oss til upplýsíngar
og huggunar um þína nádugu forsjón,
til þess ver ætíd skyldum treysta þér
einum, hversu báglega, sem áhörfast
kann og hvernig, sem allt veltist hér.
Þú ert sá, sem med sérlegri nád minnt-
ist á Nóah í því almennilega og mikla
syndaflódi og sem uppiheldist orkinni í
votnum og ofsa regni. Þín forsjón
vardveitti og leiddi Abraham frá
ættíngjum sínum til þess fyrirheitna
landsins. Þú leiddir Jakob á hans
ferdum; þú fórst med Jósepb í Eg-
yptaland, og frelsadir hann frá
allri eymd; þú baudst hrøfnum ad
færa þínum Spámonnum fædslu; þú
hófst Davíd frá hjardar geymslu til

Konúngs tignar, og vér, erum vér ecki sjálfir vitni til þinnar dásamlegu forsjónar? hversu margir huldir vegir vors lífs eru oss nú ecki ljósir ordnir? hversu margt héldum vér ecki óluckuefni fyrir oss, sem vér høfum sídan reynt, ad vard medalid til vorrar lucku? hversu opt hafa ecki þau harma tár, sem vér úthelltum á sorgar-døgunum nmbreytst í fögnud og gledi? hversu opt høfum vér eckí birjad þann dag med harmakløgunum og qveini, sem vér endudum med fagnadar løfsaung til Guds? og hversu augljós mun oss þá ecki í himninum sídarmeir verda vísdómur og gædska allra þinna rádstafana? Eilífi Gud! vor trú og traust á þinni Guddóms forsjón verdur æ því meir ad aukast, sem vér ófanlegri røksemdir finnum um þína mildiríku forsjón; vér viljum med trúar-øruggu hjarta vænta þess alls af þér, sem naudsynlegt er, til vorrar sønnu lucku og farsældar; alla vora vegu, øll vor efni viljum vér fela í þitt vald og umsjón, og undir eins støduglega vona, ad þú munir allt vid oss vel gjøra; vér þeckjum ecki þá vegu, um hverja þú vilt leida oss, en þetta vitum vér og þad

hughreystir oss, ad hvernig sem þeir oss álengdar virdast, munu þeir þó, vid nágvæmari yfirvegun, géfa oss ætíd nóga orsøk til þeirrar vidurkénníngar: Drottinn! réttlátir og sannir eru þínir vegir! þú ert hulinn Gud, þú, Israels Gud, vor Frelsari! lofad veri þitt nafn ad eilífu!

# 48. Hugvekja.

Bidjid óaflátanlega. 1 Tessal. 5.

Bænin er eitthvert dýrmætasta medal til ad gjøra oss hæfa til medtøku Guds velgjørnínga; því ecki er vegurinn nema einn til þess, ad ødlast vináttu Guds, sálar ró og von um eilífa himnaríkis sælu. En—hverr er nú þessi vegur? hann er audmjúk medkénníng vors veikleika og allra vorra misgjørda, en ørugg trú og traust til miskunsemi og gædsku hins allrahæsta Guds. Til þessarar audmýktar og trúnadar traustsfær trúud bæn leidt hinn beinasta veg. Þegar vér skynsamlega ákøllum Gud og bidjum hann einhvers, hvørs helzt, sem vera kann, med hvílíkri tilfinníngu eginn vanmáttar, hvílíkum ordum ber oss þá

fyrir hann ad framkoma? műn þad ské án þess neydin bendi oss til, hverju vanmegná vér erum henni sjálfir af ad létta, og þessvegna undir eins til ad audmýkja og vidurkénna oss óhæfilega til ad vidhalda, vernda, betra og helga oss sjálfa? vogar þá nockurr af oss ad treysta svo á sinn eginn fánýta mátt og alls engann verdugleika, ad hann ecki segi med Abraham: Herra! eg hefi dirfst ad tala vid þig, þó eg sé einúngis dupt og aska? dirfist þá nockurr af oss annad enn játa med Jacob: eg er allt of óverdugur allrar þeirrar miskunar og trúfesti, sem þú hefir audsýnt mér? einkum þegar vér gætum þess, ad vér frá barnæsku vorri erum af syndinni fleckadar manneskjur; jafnvel þó Gud frá barndómi hafi géfid oss óteljanleg merki og sannmæringar um sinn kjærleika, høfum ver þó svo gálauslega, svo móthróanlega brotid hans bodord. Þegar vér dirfumst enn þá ad bidja Gud um fleiri velgjørnínga, megum vér þá ecki andvarpa med audmjúkum anda og segja: Drottinn! hondladú ecki vid mig eptir mínu óþacklæti, endurgjald mér ecki eptir misgjørdum mínum? í hvilíku ástandi fá-

um vér eckért annad gjort, enn sett allt vort traust til Guds nádar, fyrir Jesúm Krist; ecki fáum vér reidt oss uppá egin dygd vora, sem er svo veik, svo ófullkomin, svo bløndud breiskleika, heldur einúngis uppá verdskuldun og fridþægíngu, vors guddómlega Frelsara. Í þessari trú megum vér þar um fullvissir vera, ad Gud ecki muni synja oss þess, sem ebla má vora sønnu og varanlegu luckn; med því innilegri hjartans viðqvæmni, sem vér andvørpum til Guds, sem vors mildiríkasta Føðurs, hvíóruggara verdur vort sonarlega traust á honum; því náqvæmlegar, sem vér setjum oss fyrir sjónir ad ødru leiti vorn óverdugleika, en ad hinu, fridþægjandi pínu og forþénustu hans Sonar, því óhvikulli og sigursælli verdur vor trú. Vér verdum þar vid hæfari til ad medtaka Guds ómetanlegu nádar gædi. Þad er í trausti Jesú fullnægju-gjørdar fyrir oss, ad vér med gledi og djørfúng vogum ad nálgast, í audmjúkri bæn, vorn himneska Fødur; ó hvílík heiløg gledi! hverju óútmálanlegur føgnudur! hvílíkur forsmeckur hinnar komandi himnesku sælu gefst oss þá ecki í bæninni! ó! ad vér

því ecki lengur vanrækja nædum, ecki lengur med gáleysi æfa svo heilaga ydju! ó! ad vér þó vildum ydduglegar yfirvega hver lucka það er fyrir synduga manneskju, ad voga ad tala í bæn sinni vid Gud og kalla hann sinn Födur!

Upp til himins med hjarta hreint,
Ad horfa' og segja: Gud minn! þú,
Ert æ kaitt athvarf ljóst og leynt,
Hver lucka veitist stærri' enn sú?

Sæl ertú, kristna manneskja! sem grundvallar þína trú á Jesú fridþægíngu og fyribón! ó! hvílík lucka þér, nú þegar þér í lífi er géfin: ad hann vill heyra þína bæn og þitt ákall, sem er þinn gódi og almáttugi Fadir? hvílíka rósemi finnur þá ecki sála þín, já, fögnud, sem útpressa mætti einher gledi-tár af augum þínum, þegar þú uppliptir þeim til Guds, sem er þér allt og þín øll von? Þessa lucku, þessa rósemi má vor audmjúk og trúarøruggg bæn afreka oss, þá munum vér reyna, hversu kroptugt þetta farsældar medal er, til ad styrkja vorn hug og vora von. Vér frammgaungum þá, líknarfulli Fadir! hraustir og óqvídnir undir þinni vardveitslu og nád og styrktir af þínum krapti; gladir tøkum

vér á móti sérhverri sorg, naud og hættu, sem adkoma kann. Þannig í vorum bænum ad mega umgángast þig, ó vor Gud! hér á jordunni og vænta enn framar ad vera á sídan eilíflega hjá þér í himninum, þad sé æ vor huggun og vor gledi, vor styrkleiki og vor vegsemd í lífinu. Amen!

## 49. Hugvekja.

Vitid þér ecki ad þér erud Guds musteri og ad Guds Andi byggir í ydur. 1 Cor. 3.

Ad vera Guds barn og musteri hans heilaga Anda, þad er sú ædsta farsæld, sem veita má ómetanlega mikla gledi sérhverjum kristnum, sem hana á. Séum vér Guds børn og eilífs lífs erfíngjar, høfum vér þegar ødlast miklu meira enn heimur þessi fær nockurntíma gefid oss ellegar frá oss tekid. Hvad er þad til á vorri jordu, sem framar megi auka oss hrigdir, þegar vér med vitnisburdi ens heilaga Anda erum fullvissir um velþóknun Guds? Máské oss hriggi missir eda skortur einhverra jardneskra audæfa? en sérhvert Guds barn á óendanleg audæfi í vændum. Sé Gud vor Fadir, mun

hann víst ala onn fyrir oss hér í lífi. Máské oss hriggi einhver ærukrenkíng eda virdínga missir? en fáum ver nockurntíma ædri virdíngu nád, enn þeirri ad vera sameinadir óendanlegum Gudi? þær sálir, sem af íbúd heilags Anda eru hafdar upp yfir allra holdlegra girnda yfirdrottnun, þeckja og gledjast vid adra lángtum ædri vegsemd, lángtum hreinni lystisemdir enn þær, sem hafa sín upptøk af sýnilegum og hégómlegum hlutum. Vér þeckjum og umgaungumst þá jafnvel hér þann Gud, sem er sjálfur kjærleikurinn, sem svo fødurlega lét sér um oss hugad vera, ádur enn grundvøllur veraldarinnar var lagdur, sem er alvís, nádugur og miskunsamur Fadir og Gud, sem stjórnar øllum hlutum til vorrar sønnu farsældar. Vér þeckjum og reynum hann ad vera vorn trúfasta og eilífa vin, sem situr á Guddómsins veldis-stóli, sem af kjærleika til vor borid hefir allskonar ørdugleika hins mædusamasta lífs, og sjálfur látid lífid fyrir oss; vér þeckjum og finnum andans verkanir, sem uppfylla oss med fridi og gledi hins eilífa lífsins. Guds vinfengi og sálarinnar rósemi, er því vor ritdómur, vor

heidur, vor huggan og vor sáluhjálp hér á jørdunni. Skal þá ecki svo óumrædi-lig Guds nád vekja oss laúngun ad þjóna Gudi med því hreinna fram-ferdi? en — hvad er þó náttúrlegra enn þessi þánki: eg er fyri trúna ordinn Guds barn; holdsins girndir, heims-ins fásinnu finn eg nú gagnstædar minni ágvordun og voninn um hid eilífa líf, sem Gud hefir verkad í mínu hjarta; allt of dýru verdi er eg til þess keyptur, ad eg hér eptir vera skuli heimsins og syndarinnar þræll. Mín kostgæfn-asta ástundan skal því frammvegis mida til þess, ad hriggja ecki þann Anda, af hvers íbúd eg nýt þeirrar lífsins yndælustu lucku, lífsins ánægju og rósemi og ad missa ecki aptur þá nád, sem Gud, af óverdskuldudum kjærleika, hefir kallad mig til. O! þú, gódi guddóms Andi! innrættú sjálfur vorri sálu þetta hér þóknanlega hug-arfar; stjórna þú og upplýsa oss, svo ad vér med þinni vegleidslu mættum fá umflúid þær snørur, sem hold og heimur svo optlega leggja í vegiun fyr-ir vora dygda æfíngu; upplýs þú vor augu, svo ad vér þeckjum þær háska-semdir, sem umkríngja oss, en géf oss

öruggann hug og dug til að stríða gégn þeim; leið þú oss á réttum vegi, svo vér ecki villumst af honum framm á lastanna léttfæra veg, né þar með leiðumst enn lengra frá voru rétta takmarki; géf oss náð til að veita þeim bendíngum eptirtekt, með hverjum þú vekja vilt vora sálu, en ecki mótþróanlega niðurþagga þær; styrk oss á sorgar og neyðarinnar degi með þinni huggun og hjálp; lát vora fullvissu um þá sælu, sem vér egum í vændum í eilífðinni, æ sterkari verða, ætíð meir lifandi í vorri sálu; undirbú þú oss þannig, vor Guð! að vér qveðja kynnum heim þenna með rósemd og gleði, hvenær sem þínum vilja hédanaf vel þóknast.

# 50. Hugvekja.

Hverr vill skilja oss við Guðs elsku? hörmúng eða mótlæti? offókn eður húngur? klæðleysi eða lífsháski eða sverð? allt það sáum vér yfirunnið fyrir hann, sem oss elskaði. Róm. 8.

Vort náttúrlega vanmætti er oss af engu auðsjáanlegra, enn þegar vér hugleiðum svo margann góðann ásetníng, sem vér hofum oss stöðugt í hjarta, en aldrei verður af oss framqvæmdur. Hversu mörgu lofum vér ecki Gudi á

morgni hverjum í vorum daglegu bænum, þegar vér gaungum til altaris, vid viss tilfelli, sem gjöra oss hugsjúka fyrir voru lífi? hversu tídum má ecki einhver gódur ásetníngur vera í stad vors gjörvalla kristinndóms? og hvar er þá framqvæmdin? med hverju sönnum vér þá, ad ásetníngurinn hafi verid vor alvara? þad er einúngis víst, ad Gud hefir ecki hér í heldur látid oss skorta sína þeckjanlegu hjálp; frá honum einum kom oss sá gódi ásetníngur, med hverjum hann vildi fá oss uppvakta og leidda til ad æfa þad góda; en ad vér ecki látum þetta Guds verk í vorri sálu ná sínum tilgángi, þad vottar ljóslega vorn óvilja, vora leti, vörn mótþróa og vort gáleysi. Ad sönnu vantar oss ecki afsakanir og hindranir, en vóru þá vorar afsakanir æ sannar og hindranirnar óvinnandi? megum vér afsaka oss med vanmætti vorum, þar vér vitum ad Gud, eptir velþóknun sinni, verkar bædi viljann og framqvæmdina í oss? ellegar, vantadi oss tækifæri til ad framqvæma vorn ásetníng? hvernig fengjum vér og þetta sagt, án þess ad vort gjörvalla líf vitnadi á móti oss? hvílíkann skada

höfum vér ecki gjört oss sjálfum? hversu mikid gott er ecki forsómad? hversu mörg tækifæri til ens góda höfum vér ecki þar vid mist? Vor samvitska hefir ad sönnu máské nockud hrærst um sinn, en vort hjarta hefir sídan ordid því hardara og þverbrotnara, er þá ecki ad óttast ad vér höfum upptendrad med þvílíkri adferd, gudlega reidi gégn oss? O! ad vér værum eins stadfastir í vorum ásetníngi, sem sá fortapadi sonur, er ecki ad eins ásetti sér ad snúa heim aptur til födurhúsanna, heldur gjördi sig ad öllu ferdbúinn, já, flýtti sér heim; máské vér birjum nú á þessari stundu helgann ásetníng? ad minnsta kosti bæri oss ad gjöra þad. O! ad hann þó, eins og fyrrum svo margur gódur ásetníngur, ecki hvirfi burt samstundis! snúdu því öllum þínum hugrenníngum, sála mín! til þessa efnis og géf þú med athygli gaum ad þeim gódu hræríngum, sem í hjarta þínu uppkoma kunna; sládu ecki á frest ad framqvæma þenna ásetníng, þar þú allteins lítid rædur yfir hjarta þínu og ókomnu tímunum. Endurnýadu nú á þessari stundu þann sáttmála, er þú svo opt brotid hefir og vertu

framvegis stødugri í þínum góða áſetníngi. Drottinn Guð! þér er allt vort hugarfar, allur sá áſetníngur kunnur, sem nú qviknar í vorri sálu. Þú veitst hversu breytilegt og hvikult, hversu veikt, hversu þverbrotið vort hjarta er; æ! gjør það staðfast, øruggt og hlýðið í því að æfa hið góða. Uppvektú vora sálu sífellt með góðum og heiløgum hræríngum, sem þinn Andi verkar í oss! hjálpa oss til að framqvæma þann góða áſetníng, er vér nú birjum, að vér ecki vanrækjum vora sáluhjálp eða tortýnumst vegna þess góða áſetníngs, sem vér aldrei kappkostuðum að framqvæma.

## 51. Hugvekja.

Allt umbreytist í heimi hér, um harmakjør mín allteins fer; Guð farsæl afdrif géfur þeim, gæðskan hans alvøld stjórnar heim; þjáist hér hold og þoli hel, þar líður mér um eilífð vel.

Eckért augnablik er til, sem er øðru fullkomleza líkt. Vort ástand umbreytist sífeldlega og — sem sérlegast er — vér verðum þess allteins lítið varir hversu hastarlegur óstøðugleikinn er og hins, hversu fljótt jørðin á sérhverjum degi veltist í hríng. Jafnvel oss þægi-

leguſtu hlutir eru hvað meſtum óſtöð-
ugleika undirorpnir; nú erum vér heil-
brigðir, glaðir, ánægðir, en munum
vér einnig verða það á næſtu ſtundu!
ſké má vér ſtríðum þá við dauðann eða
einhverja ſorg og mæðu; einnig þetta
augnablik, ſem vér brúkum til ſamtals
við Guð, hverſur óðfluga burtu og
hvar er það nú? hverr þeſs vottur
framar? Viſsulega er það ſorglegt,
þegar vér yfirvegum allra hluta óſtöð-
ugleika og verðum þeſs ſífellt varir,
að tíminn líður á burt, rétt eins og
reykur eða foſsandi vatnsſtraumur.
Hverſu opt gleðjum vér oſs ekki af
blómlegum og heilbrigðum líkhama,
af rjóðum kinnum og hrauſtlegu yfir-
bragði, af fjörmiklum ſálar og líkhama
kroptum, en ſkyndilega hverſur vor gleði,
þegar oſs rennur í huga, að máſké nú
þegar verði vor líkhami máttlaus,
afſkræmdur, ørendur, viðbjóðslegur.
Hverſu ánægðir erum vér ekki í ſkauti
vorra kjæruſtu vina, þegar innvortis
kjærleiki ſameinar þeirra hjarta við vort
og ſameginleg ſorg gjörir vora eymd að
þeirra egin? en þegar oſs hvarfl-
ar þá í hug, hverſu umbreytanlegt og
fallvalt þetta allt er, ellegar vér alvar-

lega setjum oss fyrir sjónir þann tíma, þegar vér munum apturlykja þeirra augum edur og þeir vorum, æ! þá megum vér í hvert sinn hryggjast, þegar vér lítum þá og undir eins munum til þessa. En þid: ríkdómur, metord, sællífi og von! hversu opt hughreystum vér oss ecki vid yckur í voru lífi? en þegar vér íhugum yckar óstödugleika, hversu beiskt og sorgleg verdur oss þá ecki yckar umhugsan? hversu gladvært verdur ecki vort auga vid morgun sólarinnar uppruna, en hve sorgfullir verdum vér eckí þar á móti þá oss hvarflar í hug, ad sólin líka einhvern tíma verdur myrk fyrir vorum augum og morguninn ecki framar gledur vort hjarta? Vid þvílíka ógedfelda reynslu, hlýtur vort hjarta ad hryggjast, en hrestu þig upp, sála mín! láttu enga sorg yfirbuga þig; óstödugleiki jardneskra hluta má gjøra þig vísa og luckulega; sjálfur þeirra óstödugleiki fær opinberad þér mikilleik Guds almættis; í hans hendi eru allar þíns lífs og lucku umbreytíngar, sérhver þeirra leggur sitt til fullkomnunar þess gjørvalla. Hversu jafngedja máttu ecki loksins vera, þegar þú hugleidir

náttúru þeirra hluta, sem hjarta þitt er svo fastlega bundið við? hversu léttara mun þér þá ecki falla að missa þessa hluti, þegar þú fyrifram hugleidt hafdir hvernin mögulegt og líklegt það sé, að þú munir þá missa? Þú átt þó einkis að njóta af öllu því, sem þér fellur í skaut ödruvísi, enn eins og það væri á hlaupum. Þú mátt smacka lífsins saklausu ánægju, en hennar óstödugleiki á að kénna þér, að géfa þig ecki alla við henni. Þú átt að álíta jördina eins og hennar gædi verdskulda, en við endurminníngu þeirra forgengilegleika að dempa þína ofsreku laungun til þeirra; þacklát og undrandi máttú skoða og medtaka vordaganna fegurð, þeirra lockandi prýdi og heillasömu gladværdir, en læra þó þann vísdóm af sérhverju blómstri og laufbladi, að hugleida endir allra hluta; þar við á að vekjast hjá þér laungun eptir betra og fullkomnara lífi, hvar engin umbreytíng eda umskipti, enginn óstödugleiki mun framar finnast. Því optar, sem forgengilegleiki og óstödugleiki mannlegs lífs verdur þér fyrir sjónir settur, því vissar sannfærist þú um þá farsæld, sem í betra lífi

bídur þín og ad varanlegleiki þessarar farsældar muni þar umbuna þér allra hluta óstødugleika hér á jørdu, þá verdur þú Guds og hann verdur þinn; já, eilíflega verdur hann þinn og frá honum mun þig eckért fá skilið, ecki breyngíngar, sorg eda missir eda neyd, hverki helvíti, líf né daudi.

## 52. Hugvekja.

Er Gud med oss, vér engri þá, ólucku þurfum qvída, hann má traust setja hverr einn á, í hrigdum mædu tída. — — —

Hvernig, sem vér í huganum virdum fyrir oss vort ásigkomulag, í hverjum helztlífsins umbreytíngum vér adgætum þad, sjáum vér ætíd og allstadar egin eymd vora, neyd og þarfir, en undir eins forsjón Guds því addáanlegri, því vissari. Ef vér yfirvegum þad hjálparlausa ástand, í hverju vér bárumst inní heim þenna, þá sjáum vér, ad varla er í gjørvøllum heiminum ad finna svo ójæra sképnu til ad bjarga sjálfri sér, sem manneskjuna; jafnvel þá, er vér høfdum nockrum þroska náð og ødlast meiri krapta, vórum vér þó allt of vanmegna til ad út-

vega sjálfum oss forsorgun. Vér erum undirorpnir óteljandi útvortis mótlætíngum og margvíslegri innvortis órósemi, þúngum höfudsképnanna áföllum og annara manneskja ofbeldi, svo ad öll mannleg forsjálni reyníst nærsta veik til ad fá oss fyrir því verndada, og allur vor kraptur ónógur til ad afstýra þeim áföllum, sem oss eru búin af öllu þessu til skada og tjóns. Margar þúngar freistíngar, margar huldar tálsnörur verda í vegi fyrir oss, sem vér hverki fáum þeckt né hindrad; vér kunnum ad rata í margar og óvæntar háskasemdir, sem engin mannleg greind fær fyrirsjed; vér erum undirorpnir margshåttar veikleika og sjúkdómum, mörgum órétti, svikum og prettum af ödrum, svo vér örvænta mættum ad komast af, já, öldúngis vanmegnast undir synda, sorga og eymdanna byrdi, ef vernd Guds forsjónar skildi vid oss. Auk allra þessara tilfella, sem ofbjóda vanmætti vorum, þurfum vér ennþá ad strída vid skort og örbirgd. Vér verdum varir hjá oss fýsna og tilhneigínga, sem vilja láta sér fullnægja, sem annars ángra og qvelja og gjöra oss órólega. Ef ad

vér hefdum nú enga adra hjálp í þessu ástandi, enn vora eginn krapta, hversu illa yrdi vid þessu rádin bót, hverninn vorum skorti aflétt? hversu fáar óskir vorar fengjum vér þá uppfylltar? ófyrirsjed tilfelli, óvæntar hindranir megna ad ónýta jafnvel vort forsjállegasta áform og øll þau medøl, af hverjum vér væntum oss mestra heilla, duga allopt eckért; því yrdi þad med øllu forgéfins, þó vér daglega risum upp árla, gjørdum nætur ad døgum og ætum vort braud med sorg, ef Guds adstod ecki blessadi vora ástundun og styrkti vor fyrirtæki. Sérhverr dagur færir oss heim sanninn um allt þetta, margvislega og daglega verdum vér varir vid veikleika vorn, þørf og eymd vora. En, svo mjøg, sem þessi hugleiding mætti svipta oss hug og dug, svo krøptuglega finnum vér oss þó styrkta og hughreysta, þegar vér íhugum þann sannleika: ad sá almáttugi himins og jardar Skapari á hvern vér trúum, er vor Fadir og velgjørari. Undir hans umsjón gaungum vér med gledi á móti øllum þeim tilfellum, sem kunna ad hitta oss. Med fullu trúnadar-trausti afhendum vér øll vor efni í hans nád-

arríku stjórnun; af vorum Gudi, sem elskadi oss svo heitt, ad hann útgaf sinn eingétinn Son Jesum oss til endurlausnar, megum vér vænta oss alls þess góda, sem vort frelsi og sáluhjálp vidþarf; já, hann, sem gaf oss Soninn, mun víssulega gefa oss allt gott med honum. Sú von og fullvissa mun og hughreysta oss í sérhverri eymd og neyd; hún skal oss jafnan nóg, þó eitthvad af tímanlegum munum bresti, og heimsins blídt atlæti umflýi oss, því sé Gud med oss, hverr kann þá vera í móti oss?

## 53. Hugvekja.

Æ! voknum daudinn ádur enn kallar, oss á óvæntri hédan stund; aldradir bædi' og úngir falla, í sótt og hraustir hels í blund. Sín afdrif fyrir enginn sjer, ætíd vidbúinn sæll því er.

Hvílíkur ásetníngur er oss mönnunum hæfilegur, hverra líf er svo stutt, og þar hjá einka mikilvægur. Hversu skammur tími er þad, sem vér egum ennþá ólifadann? eru þad hundrad, edur eru þad færri ár? og þó þad væri nú einhver hin lengsta áratala, mundi þó ecki sú eilífd, sem alls enga

áratølu né enda hefir, krefja øll vor ár til undirbúníngs? eda vitum vér fyrir vort banadægur? getur þad máske ecki runnid oss upp med morgundeginum? er þá undirbúníngur undir daudann nockurra ára, mánada, fárra daga eda augnablika verk? hlýtur ecki vidurkénníng syndarinnar og ángur af henni á undan ad gánga, eda vort hjarta og gjørvalla hugarfar ádur ad umbreytast, enn vér stígum þad mikilvæga stig, yfirum takmørk tímans og eilífdarinnar? hversu mikill eptirþánki, hversu miklir kraptar útheimtast ecki, ásamt vidvarandi ydni og ástundun, hér til; hversu naudsynlegt er ecki þess vegna, ad vér nógu snemma gjørum oss vidbúna, já, búumst sem best undir þetta mest áríđanda stig af øllum? Þad, sem enn er eptir af vorri hérvist, hvert heldur þad eru ár, dagar eda fá augnablik, hverfur ódum á burt og þessir ókomnu tímar munu þó auka vora fordæmíngu á sídan, ef ad vér ecki brúkum þá forsjállega. Fyrr enn vér verdum þess varir, er vort endadægur upprunnid, og daudinn fyrir vorum dyrum, og þá mundum vér fyrst briggvir skélfast, ad allur vor gódi ásetníngur í svo lánga

tíma varð að engu. Hversu skammann tíma egum vér enn ólifaðann, spyrjum vér aptur? vér vitum það ekki, og þessi óvissa ætti að gjøra oss forsjála og umhyggjusama um brúkun vors lífs. Vér ættum ætíð þannig að lifa, eins og sérhverr dagurinn væri síðastur vors lífs, vér ættum ætíð svo að breyta, sem vér mundum óska oss að hafa breytt við endir vorra daga. Vér ættum ekki að mæta voru endadægri, sem vitstola menn og gárúngar, heldur með yfirvegun og góðum undirbúníngi; opt ættum vér að spyrja oss sjálfa: munu þessar lystisemdir, þessar gladværdir, þessi ríkdómur, þessi metorð verða mér sem í dauðanum og eg álít þau nú, á meðan eg lifi heilbrigður? mun eg þá með ánægju minnst géta þeirra athafna, sem eg nú hefi fyrir stafni, þegar eg á bana-sænginni renni augunum til baka til míns liðna lífs, og hugleiði øll míns lífs fyrirtæki? þegar vér høldum sífeldt áfram þessari eptirgrenslun í øllum lífsins athøfnum með réttri hjartans einlægni og støðugleika, mætti hún að minnsta kosti hafa þá heilsusamlegu verkun fyrir oss, að vér forsjálli yrðum í brúkun

jardneskra hluta og vorum fyrirtæk-
jum. Æ! tökum nú á þessari stundu
fyrir oss nýtt og betra sinnislag; í
dag erum vér einum degi eldri ordnir,
ellegar, sem er hid sama, vér erum
komnir einum degi nær grøfinni enn í
gjær. Líf vort kann máské enn þá ad
vara nockra, en þó til vissu mjøg
stutta stund, ef vér metum þad eptir
augnablikum og jøfnum svo saman vid
eilífdina; en uppá þessa svo stuttu, svo
ódfluga og hverfula stundu á þó ad
koma vor eilífa lucka eda óhamingja.
Hversu dárlegt má þad þá ecki virdast,
ad láta sér øldúngis úr minni lída,
vegna þessa nálæga og þegar útrunna
lífs vora eilífu áqvørdun? eda skulum
vér, skynsemi gæddir og af Jesú end-
urleystir, vér, sem erum himinsins
borgarar, lifa allteins og dýrin, sem
enga réttnefnda skynsemi ødludust,
hafa þess vegna engar skyldur ad vard-
veita, ecki heldur sektir fyrir þeirra
vanrækt ad óttast? egum vér þá þanka-
laust ad eyda þeim stundum, sem ecki
eru vor eign heldur enn annad? skyld-
um vér hafa lifad svo marga daga, sem
allur vor aldur innibindur, en géta þó
ecki sagt um einn þeirra: þenna dag

hefi eg verduglega lifad? skulum vér fresta vorri yfirbót uns hin lánga og ógnarlega eilífd yfirfellur oss midt í andvaraleysinu? Ónei! ónei! veri nú sá ásetníngur stødugur hjá oss øllum á sérhverjum tíma, sem Gud unnir oss lífsins, ad hugleida og verka vora sáluhjálp, þá verdum vér sælir!

## 54. Hugvekja.

Kénn mér þá vitsku vel svo telja, vegferdar minnar daga hér, ad þinn eg stundi veg ad velja, vakni til sælu' og lífs hjá þér. O Gud! þá daudans dregst ad nótt, deya géf þú mér vel og rótt!

Sá tími mun einusinni adkoma, sem svipti oss øllu því, er vér nú álítum ávinníng vorn. Vort líf, vor heilsa, vor tímanleg velgengni, metord og lystíngar, allt hvad vér kjært høfum í þessum heimi, varir þó ecki lengur enn til vors dauda dags, og þegar ad þessum degi er komid, eru øll vor fyrirtæki, sem vér ásett høfdum ad framqvæma, tøpud, vér hljótum þá ad snúa bakinu vid því øllu, sem vér nú álítum ad vera oss ávinníng á jørdunni. Hversu umþenkíngarverdur og þó óþægilegur, má ecki sá tími vera sér-

hverrar manneskju náttúrufari, því daudinn er náttúrunnar óvinur; þad er því ónáttúrlegt ad bera engann qvídboga fyrir því, sem lífi voru er skadvænt; hversu þúngt er ecki vorri mannlegu náttúru ad yfirgéfa sambúdir hinna lifendu, vorra kunníngja, vorra ástvina, og sjá þann tíma nálægjast, sem leidi oss í hid ókunna land enna daudu, hvar vér eilíflega hindrumst frá þeim athöfnum, sem vér álítum oss hér naudsynlegar; ad ryckjast burt frá vorum allra bestu vinum, sem elskudu oss eins og sinn augastein, já, héldu oss ad vera þad tré, undir hvers skugga þeim var öll ánægja ad mega hvílast; ad fá alls eckért med oss tekid af allri vorri útvortis vegsemd og yfirlæti, nema lélegann moldar-hjúp, sem þó ecki fær líkhamann verndad fyrir rotnun og ormanna nögun; hversu fátæka gjörir oss ecki þessi tími? fátækari enn vér vórum allt frá vorum fædíngardegi. Uns vor dauda stund adkom, vérum vér máské virdtir og heidradir af hverjum manni; vor ráð vóru sókt, vorum bodum var fylgt, þángad ad og ecki lengra nádi vor eignar-rettur á því, sem vér undir höndum höfd-

nm. En, daudinn sviptir oss øllum eignar-rétti og allri eign og hverki má framar heita um líkhama vorn og líkkistu, né um grøf vora, ad þetta, auk heldur annad, sé þadan af vor eign; líkhama og kistu eignast ormar og rotnan, og sømu grøfina allopt adrir medbrædur vorir; mun ecki þessi tími mega óttalegur virdast vorri, vid þennann heim svo fast bundnu náttúru? efalaust má hann þad vera þegar vér álítum daudann eins og náttúrlegar manneskjur; en—sem kristnir—ødlumst vér strax annad hugarfar; allt hid óttalega fær annad útlit í vorum augum; missirinn verdur vor ávinníngur, þegar vér álítum daudann eins og sannkristnum ber; því þegar vér nákvæmlega adgætum endir vorra náttúrlegu afdrifa, gèfst oss ánægjanleg orsøk til gledi. En, ó þú, lífsins og daudans Herra! þad er þessi þættusami tími, sem vér hugsum svo lítid um, en skélfumst þó fyrir, því vid hans umhugsun hværfur øll vor lystisemd. Æ! virdstú ad gjøra oss daudans umhugsun þæga og óttalausa og leida oss fyri sjónir vora réttlætíngu í daudanúm frá syndinni, vort fullkomnada

frelsi, vora eilífu sáluhjálp, það hnossið, sem vér keppumst eptir og þá lífsins og vegsemdarinnar óforgengilegu kórónu, sem umbuna mun alla vora mæðu. Gjörðu oss vitra, kenn oss opt og ydduglega að hugsa — jafnódt og vorar æfistundir framlíða — þannig: lof sé Guði! nú er aptur eitt stig til eilífðarinnar áfram komið! Þegar nú loksins þar að kemur, að allar vorar lífsstundir eru útrunnar, lát oss þá sofna útaf með ánægju í hjartanu, svo vér aptur megum uppvakna í eilífri gleði. Aldrei fáum vér hér í heimi meiri blessun öðlast, aldrei farsælli og rólegri lifað, enn þegar vér vitum og fulltreystum því, að þessi vor ósk muni verða af þér bænheyrð; já, þú munt bænheyra oss, mildasti Faðir! vér reiðum oss uppá þína miskun og náð í Jesú nafni, og fulltreystum því, að sökum hans pínu og dauða, viljir þú einnig farsæla vorn síðasta viðskilnað, þegar vér ástundum að búa oss verðuglega undir hann, með því að hlýðnast þínum boðorðum, og á meðan vér lifum, ástunda að þóknast þér. Æ! vertú jafnan í vorum breiskleika máttugur! Amen!

# 55. Hugvekja.

Hvad viltú svo qveina' og klaga, kjør útskipt þér, sála mín! því með sorgum svo þig naga? sjá! þinn Guð vill heillir þín; eg í Gudi gladur er, Guð! mín sál fulltreystir þér, ollu' er reyn' eg viltú venda, til vegsamlegs og farsæls enda.

Ad øll vor sorg og mæda í heiminum er svo óstødug, gefur oss huggun í sérhverri eymd; enginn er frí frá sorgum og andstreymi á jørdunni um alla æfi sína; lofadur veri Gud, ad allar vorar mótlætíngar, allir vorir hrigdar tímar eru umbreytíngum undirorpnir! væri allt annad undir sólunni forgengilegt og óstødugt, en eymdirnar einar óumbreytanlegar, þá hefdum vér fyrst efni til ad andvarpa og qveina yfir voru lífi; en oss til heilla og huggunar eru þeir útvortis hlutir, sem mega hriggja oss, allteins breytilegir. Opt þerrast vor tár í sama vetfángi og vér grátum, og þegar vér byrjudum eina stund med umqvørtunum, endudum vér hana allopt med gledi, og høfum vér ecki einatt um æfi vora fundid marga þesskyns gledirika reynslu? hversu tídum veinudum vér ecki ad morgni dags: Drottinn hefir gleymt

mér! en ádur enn qvöldid kom, máttum vér vidurkénna: Drottinn minntist mín og blessadi mig; jafnvel undir sjálfri mótlætínganna byrdi, hefir Gud opt rétt oss þá endurnæríngu, sem lét oss gleyma allri vorri sorg; hversu ó-vidurqvæmileg var þá tídum vor um-qvartan yfir varanlegleika eymda vorra! hversu grundvallarlaus vor vantrú, og ótilhlýdileg vor möglan á móti Guds forsjón! ef ad vér vildum leitast vid ad útvega sjálfum oss rósemi, gésum þá gætur ad þeirri náqvæmu og mildu forsjón med hverri Gud leid-ir sín börn. Jósephs líf, Jobs forlög, Davíds tilfelli, já, Jesú sjálfs nidur-læging, getur sannfært oss um, hversu vísdómslega, hversu nádarsamlega Gud hagar breytíngum þessa mann-lega lífs. Því skyldum vér þá van-virda svo þann náduga, alvísa Stjórn-ara allra mannlegra tilfella, ad vér ecki tækjum oss af þessum og óteljandi ödrum dæmum, huggun og gledi í vor-um ókomnu lífsstundum? Hvernig fengjum vér verdskuldad ad lifa nockra glada stund, ef vér ecki viljum þolin-módlega umbera hinar ógédfeldu? Þessar nú nálægu stundir géta verid

oss á einhvern hátt mótdrægar, því sífellt finnum vér nóg tilefni, sem gjört oss hugsjúka og ángurværa. Látum nú þessa stund vera oss til reynslu og æfíngar í þolinmæði, til að leggja oss með ánægju undir vors Guðs vilja. Vér skulum enga áhyggju bera fyri ókomnu tímunum, heldur dæma um þá eptir hinum umliðnu, en einsetja oss að lifa bæði þenna og sérhvern dag vel. Ekki skulum vér festa vora þánka einúngis á mótlætíngum þeim, sem oss þykja nú máské bitrar, heldur minnast hinna tímanna, á hverjum vor neyð muni umbreytast til hagsælda og vor hrigð snúast í fögnuð. Sé nú þessa tíma svo lángt að bíða, sem vill, hann kémur samt efalaust, þó ekki yrði fyrr enn við umskipti tímans og eilífðarinnar. Þá mun allt það fyrir oss upplýsast, sem oss er nú of mirkt og hulið, um tilgáng Guðs með hans reynslu og bendíngar hér á jörðunni; þá mun það einnig heita mega um oss: byrjanin var undrunarverð, en endirinn vegsamlegur. En máské vér á þessari stundu egum við engar mótlætíngar að berjast, né þurfum að stynja undir nockrum þjáníngum, en

munu þá ecki heldur neinir aumir finnast í kríngum oss, sem nú andvarpa mega? í vorri breytni við þá skulum vér leitast við að verða Guði líkir, og svo framt vér megnum, lina og létta þeirra eymdum. Það kjærleiks verk mun einhverntíma hughreysta oss, þegar vér erum í eymdum staddir, og þar að auki áfýsa aðra að létta undir vora byrði, þegar mótlætið heimsækir oss eins og þá, og þó það yrði ecki, mun samt Guð sjálfur verða vor trúfasti hjálpari, sem stjórnar öllum vorum mótlætíngum til farsællegs enda. O! hversu glaðir megum vér ecki vera þá, þegar Guð stjórnar öllum efnum vorum! hann mun og, vegna Jesú friðþægíngar, af oss létta allri neyð.

## 56. Hugvekja.

Eg vil þacka Drottni í mínu hjarta; eg vil segja frá öllum þínum dásamlegu hlutum; eg vil gleðja mig og fagna í þér; eg vil sýngja þínu nafni lof, þú, allra-hæsti! Psálm, 9.

Þó að velgjörníngar hins miskunsama Guðs væru ecki svo óteljanlegir, þó að þeir væru ecki nema um vissa tíð, þó að hans góðgirni hefði með

þessum degi enda, gætum vér þó ecki orð fundið til að prísa með kjærleika Guðs verðuglega. Þó nálæg stund gæfi oss ecki orsök til að prísa hann, mættum vér þó færa honum óendanlega lofgjörð fyrir allar umliðnar. Svo lángt, sem vér lítum til baka og til hins umliðna vors lífs, finnum vér allstaðar óræka røksemdir og merki uppá hans náð og velgjørnínga. Vildum vér telja hans velgjørðir, mættum vér framtelja sérhvert vort æðarslag, sérhvern andar-drátt, sérhvern þánka. Því þegar vér að eins reikna vildum saman þá velgjørnínga, er sérhverr dagurinn, sem vér lifum, sjálfkrafa færir oss, svo sem: ljósið, loptið, fæðuna, krapta til erfiðis og vort líf, hversu margir yrðu þá ecki allir Guðs velgjørníngar við oss að lokunum? Hversu margir þá þeir, er hann árið um kríng, hvert árið eptir annað, já, allann vorn aldur, lætur falla í vort skaut? hversu ber oss ecki að þacka alla Guðs velgjørnínga við oss á barnsaldrinum og hinum efra aldri? svefnsins velgjørnínga? hina huldu og náðarríku forsjón, hverrar vér urðum ecki varir? endurlausnarinnar velgjørnínga? O Drottinn!

óteljandi og ómræðanleg er þín náð! að framtelja alla þína velgjørnínga, er oss syndugum og fáfróðum ecki unnt; að íhuga verðuglega fjølda þinna dásemdar=verka, er engum dauðlegum géfið, þareð jafnvel englarnir mega furða sig við þeirra hugleiðíngu, þáft að og prísa þína gæðsku. Vorkénntú því, líknarfulli Faðir! veikleika og vanmætti vorrar sálar, og fyrirgéf þú oss það tilfinníngarleysi, að vér ecki létum íhugun þinna velgjørða upplífga oss, sem bar, ecki leiða oss til hjartanlegasta þacklætis og fúsrar hlýðni við þín boðorð! Þó vér gétum ecki upptalið alla þína margføldu náð, viljum vér þó leitast við að ígrunda hana, að láta hana ætíð vera oss hugfasta, að auglýsa hana øðrum. Þótt vér ecki nema að nockru leiti þeckt fáum stærð þinnar miskunar, viljum vér þó því meira ómaki verja til að þeckja, hversu ónógir sjálfum oss vér erum, hversu óverðugir, hversu vanmegna; þó vér gétum aldrei verðuglega prísað Guð með orðunum, viljum vér því kappsamlegar leitast við að dýrka hann með voru framferði. Þó að vér ecki fullkomlega fáum skynjað hans miskunarríka kjærleika í þessum

heimi, skal oss samt því innilegar lánga eptir himninum, hvar lángtum meira af hans náðar verkum mun oss verða kunnugt, þar mun líka vor túnga fá honum súngið verðugri lofgjørð. Fáum vér ecki vegsamað hann í voru lífi, munum vér þó gjøra það í dauðanum og útgánga af heiminum með þeim lofsaungi: Drottinn! hversu mikið hefir þú gjørt við mig? En þegar vér loksins upphafðir erum til þinnar dýrðar, eilífi Guð! munum vér fullkomlega fá þeckt, hversu mikið þú hefir við oss gjørt; þá mun vor sála prísa þig, og vor andi gleðjast í þér, vor Guð og vor Frelsari!

## 57. Hugvekja.

Kénn mér, ó Guð! sem gætir mín, gánga fram
eptir boðum þín, ørdugar lífsins leiðir! samvitskunnar þá frið eg finn, og føgnuð eilífann,
Drottinn minn! er þú útvøldum greiðir.

Að lifa heilaglega og í sannri trú og guðhræðslu, leitast við að verða Guði þóknanlegur og honum æ líkari, það er vor kallan, tilgángur vors lífs, vort mark og mið og vor lucka. Stunda þú því, kristinn maður! að ná skírri, sannfærandi og fullkominni þeckíngu

um skyldur þínar, hverju sérhver þeirra sé naudsynleg þér, og þar hjá ad sínu leiti dýrmæt. Endurnýadu og styrktu þessa þína þeckíngu tídum og brúkadu hana og æfdu í daglegu líferni; lærdu ad skilja, ad skyldu þín, jafnvel sérhver hin ørdugasta, er þín lucka; vaktu því yfir þínum girndum og sinnishræríngum, svo þær leidi þig ecki afvega; trúdu sjálfum þér aldrei ofvel, og prófadú daglega hjarta þitt og framferdi grandgæfilega, því sérhverr dagur, sem þú lifir, er dýrmætur partur þinna lífs-stunda. Hugsadú opt og med trúudu hjarta til Guds og Jesú, og leitadú í yfirvegun hans fullkomlegleika og verka, í hans velgjørníngum, en þó einkum í þeirri endurlausn, sem hann þér afrekadi, helgustu upphvatníngar og kraptugustu medala til ad lifa rádvøndu og dygdugu líferni. Finnir þú vanmætti þitt, láttú þad því framar knýja þig til heitrar bænar um hjálp hans og nád, sem lofad hefir ad láta sinn krapt verda í breiskum máttugann. Lærdú æ betur og betur ad þeckja sjálfann þig og heiminn, sem þú lifir í, og hugsadú tídum til þess, hvers vegna Gud lét þig fædast og lifa á

jørdunni; þenktú þar um opt, hversu líf þitt er stutt; um tign og mœti þinnar sálar og hennar ódaudlegleika. Hugsadú um dygdanna umbun og lastanna straff, sem framkoma mun, ecki einúngis í þessu lífi, heldur og hinni ókomnu eilífd; nidurþagga þú aldrei rádleggíngar samvitsku þinnar, né þína innvortis blygdun yfir hinu vonda, því sú tilfinníng er verndari og vaktari hins góda hjá þér; ástundadú strax frá barndómi ad hlýda rádum gódrar samvitsku, ádur enn hjarta þitt skémmist og forherdist af lastanna vana gégn því góda; sjádú til ad hafa ætíd eitthvad nýtsamlegt fyri stafni. Lærdú ad takast ómak og ørdugleika á hendur; því ómakslaust skédur engin dygda æfíng, engin verdskuldan, engin lucka. Neitadú sjálfum þér opt leyfilegra lystisemda, svo ad þú þar vid venjist á ad drottna yfir þínum tilhneigíngum; fordastú úmgengni vondra, en sæktú samqvæmi rádvandra; lærdú forsjálni af þeirra dæmum og speki af undirvísun þeirrar heilögu Ritníngar. Gjør þetta og haldtú áfram í því; þá muntú vara í dygdum, vara ad farsæld med varandi innvortis ánægju. Høfum

vér þessar reglur oss ydduglega fyrir augum, munum vér smámsaman leidast og venjast á ad breyta eptir þeim, og hversu dýrmæt er þá ecki vor lucka? fáum vér henni ad eins náð, er allt fengid, sem vor áqvardan útkrefur, allt, sem vér fáum nockurntíma óskad oss; þá getum vér lifad í rósemi og ánægju, og á síðustu stundum vors lífs, mun þessi rósemd og ánægja, sem vér nú smøckum, þegar vér gjørum trúarørugga bæn til Guds, ecki vid oss skilja. Med því stærri laungun, sem vér nú óskum oss í lífi og dauda, ad vardveita þetta hugarfar, því innilegar grøtum vér til þín, heilagi og gódi Gud og Fadir! ad þú virdist ad gefa oss krapt til ad elska og ydka sanna gudhrædslu, sem veitir oss svo mikinn og heilsusamann ávinning. Endurnýa þú vor hjørtu med þínum góda Anda, og gef oss þad hugarfar, sem gjøri oss í raun og veru dygduga og sannkristna. Gef ad vér sífeldt mættum verda þér sjálfum líkari, sífeldt taka framførum í vísdómi og dygd, sífeldt verda þér enn nágvæmlegar sameinadir, svo ad vér sanna mættum sífeldt varandi rósemi og ánægju af því ad gjøra hid góda;

og séum vér enn þá lángt frá þessari lucku, æ! gef oss þá náð til að ødlast hana, og svo að eblast í dygðunum, að vér þar með nálægjumst vora sönnu lucku; þegar vér byrjað høfum að feta þennann farsældar veg, styrki og leidi oss þá, veika og óstøduga, þín vold-uga hønd, svo að vér aldrei þaðan í frá af honum villumst.

## 58. Hugvekja.

Guð! þín stærð er ómælanleg; umkríngir guddóms ljósið þig, daudlegum ofskjært øllum; þó er þinn kraptur øllu nær, alheima, er þánkinn mælt ei fær, geym ræður þú gjørvøllum; eins smærst og stærst, allt ber vottinn um þig, Drottinn! er vér sjáum, í þínum verkum og fundið fáum.

Aldrei fáum vér nógsamlega yfirveg-að verk vors Skapara, sem byrtast fyrir augum vorum og á degi hverjum krefja vora náqvæmu athugasemd og dýrkun hans, sem þau svo dásamlega gjørði. Hvað má framar hræra vort hjarta, framar fylla vora sálu heilagri undrun, enn skoðun Guðs dásemdar verka, sem eru svo vegsamleg og verð-ug elsku? Hvað framar minna oss á hans speki og gæðsku, enn skoðan svo

margra skapadra skepna, vid hverja Skaparans almætti, vísdómur og gædska auglýsist oss jafn addáanlegt? Hvad framar hjá oss styrkja traustid á Guds alvoldugu stjórnun, enn þegar vér hugleidum og virdum fyrir oss þá almennilegu forsjón, sem allteins náqvæma umhyggju ber fyrir lifi jurtanna og dýranna? hvad segir oss sérhvert gras-strá, sérhvert blómstur, sérhver uppvaxandi jurt? hvad gjorvöll náttúran? mikil, addáanlega mikil eru verkin Drottins. Hverninn má nockurt, jafnvel prýdilegast meistara-verk manna, koma í samjöfnud vid heimsins dásømu byggíngu? mun snoturt málverk einhvers lands mikils metandi á móti sjálfu landinu, í hverju øll náttúrunnar prýdi og gædi eru sameinud? en hvad veldur því ad vér svo mikils metum mannlegar íþróttir og verk, en erum þó svo kaldir og tilfinníngarlausir vid Guds dásemdar verk í náttúrunni! sannarlega, ef vér hugleida vildum þess gjorvalla sköpunar-verks undrunarverdu stærd, og hversu ómælilega vídt þad nær; náttúrunnar óumbreyttu reglu og reglulegu umbreytíngu; fjølda hinna sköpudu skepn-

anna, og margfoldu kynbreytíngar; sérhvers prýdi, ordu, reglu og sambønd, fengjum vér ecki haldid ofs frá, fullir undrunar ad upphrópa: mikil eru verkin Drottins! Mikli, ómæligalega mikli Skapari! vér undirtokum med øllum hínum skøpudum sképnum og játum: vér erum einúngis dupt og aska, eintómur skuggi, en fáum aldrei framar þeckt og undrast og furdad þína stærd og mikilleika, en vid samburd vors audvirdilegleika vid þína hátign; vér fáum ad sønnu ecki skygnst inn í náttúrunnar innstu fylsui, en hitt, sem vér sjáum útvortis fyrir augunum, er fullnóg til ad inntaka vort hjarta og fylla þad undrun og lotníngu; vorir vitsmunir eru hálf-verk, og vér fáum þig hér ad eins þeckt eins og í speígli og rádgátu, en á sídan, þegar hálf-verkid tekur enda og vér loksins náum fullkomnari þeckíngu, þá munum vér enn betur skilja og sanna mega: ad mikil eru verkin Drottins; þá munum vér og, lengra leiddir í þeckíngunni, verduglega fá prísad Gud. En á medan vér dveljum hér á jørdunni og skodum hans verk, skal vor ydja su, vor vísdómur og vort augnamid, ad læra ad

þeckja og prísa Skaparans mikilleik. Svo opt, sem vér rennum augunum upp til himins, svo opt, sem vér skoðum jørdina, svo opt, sem vér lítum til sjálfra vor, svo opt skal tilfinníng hans mikilleika verda oss innrætt og vor audvirdilegleiki því kunnari. Fyrir þér nidurkrypur vor andi, og fullur undrunar tilbidur þig, mikli, óendanlegi Gud! ef ad þú tækir frá oss þína nádar-hønd, og þitt almætti leiddi oss ecki, þá mundum vér undir eins tortýnast. Lofud veri jafnan þín miskun, sem svo nádarsamlega lítur ofan til vor, sem þó erum einungis dupt og aska, og vill leida oss um allar eilífdir hvar vér med heilagri undrun og himneskum føgnudi fá skulum ad skoda og prísa þig óaflátanlega.

## 59. Hugvekja.

Bænin má aldrei bresta þig, búin er freistíng ýmislig; þá líf og sál er lúid og þjád, lykill er hún ad Drottins nád.

Þegar vér lesum Bibliuna med eptirtekt, finnum vér í henni svo yfrid mørg og óræk merkileg dæmi þess, hversu kroptug sé trúud og alvarleg

bæn, ad þad mætti fásinna heita, ad vilja med vantrú og efasemd neita sannleika hvílíkra dæma. Fyrir safnadarins bæn í Jerúsalem var Petur útleiddur af sínu fángelsi. Móses gjørdi bæn sína til Guds, og Israel geck þurrum fótum yfir um hafid rauda. Elías bad til Guds, og Gud vøkvadi jørdina med regni; hann bad, og eckjunnar daudi sonur í Zarepta, kom aptur til lífsins; hann bad, og eldur féll af himni og eyddi brenniførninni. Ezechíel bad til Drottins, og 15 ár løgdust til hans aldurs; já, Jesús sjálfur, þegar hann á sínum hérvistar døgum, offradi bænum, var bænheyrdur af sínum himneska Fødur. Hvernig sáum vér efast um, ad bænir vorar muni hafa líkann krapt, eins og margra heilagra manna bænir á fyrri tímum, ef vér bidjum af trúudu hjarta? er Gud ecki óumbreytanlegur í sínu almætti og í sinni gædsku! er hans nád ecki endalaus? mun hann þá hætta ad elska og miskuna oss, sem kalladir erum eptir nafni hans Sonar, endurleystir af honum og styrktir af hans fyrirbón? Onei! þín gædska, vor Gud! varir eilíflega; þín eyru eru

aldrei apturbyrgd svo, ad þú ecki viljir heyra oss þá vér framberum vora qveinstafi fyrir þig; þín hønd er aldrei offstutt til ad hjálpa þegar oss líggur á; þú munt allteins bænheyra oss og ønnur þín børn, þegar vér einúngis bidjum þig med audmjúkri og helgadri sálu. Í þessari fullvissu komum vér nú til þín, nádugi Gud! og útausum voru hjarta í trúarøruggri qvøldbæn fyrir þínu augliti. En — um hvad bidjum vér þá? máské um krapta til ad lifa vel og gánga á þínum vegum? ó! hversu ljúft væri þér ecki ad heyra þá bæn! hversu ríkuglega mundir þú ecki uppfylla þessa vora ósk? máské vér bidjum einúngis um tímanleg og forgengileg gædi? ó! ad vér þó ecki kepptumst svo ákaft eptir þessa heims fallvalta munadi, heldur miklu framar eptir himinsins farsæld! ó! ad vér leggja vildum vorn vilja og allar vorar lystíngar undir þinnar vísu forsjónar vilja og, eins og kristnum sómir, kappkosta ad girnast æ meir og framar hid góda! ó Gud! stjórna þú voru hjarta, med þínum Anda, ad vér einnig í vorri bæn, fáum hagad oss eptir þessum óskum og ásetníngi vorum. Gef oss þad

vísa, gudhrædda hjartalag, sem þú gæddir Salómon med, ef þín rödd kjæmi til sérhvers vors í sinn stad og segdi: bid þess, er þig girnir af mér! ef vér mættum velja egin luckukjör vor, lát oss þá velja eins viturlega og hann, og andsvara þér: Drottinn! Drottinn! gef þínum þénara skynsamt hjarta, svo hann skilja megi hvad gott og íllt er, og um þessa blessun bidjum vér nú á þessari stundu. O Gud allrar miskunar! gef oss rádvandt og skynsamt hjarta! ef oss audnast þessi gædi, þá mun oss allt annad gott tilfalla; þá muntú uppfylla allar vorar óskir og eptirlánganir. Og þó vér færum varhluta af audlegd, metordum og ödrum tímanlegum ávinníngi, skal þó vísdómur og dygd vera hér vor óvidjafnanlegu audæfi og vor ávinníngur. Þegar vér einúngis eignumst þína nád og þína velþóknun, þá er einkis framar ad óska.

## 60. Hugvekja.

Guds ótti med ánægju er mikill ávinníngur.
1 Tím. 6.

Ad miklu leiti koma margar vorar hrellíngar af því, ad vér erum opt

ílla ánægdir med vor luckukjør; ématt jofnum vér saman ástandi voru vid annara manna; því erum vér ecki — segjum vér opt vid sjálfa oss — svo ríkir, svo heidradir, svo ánægdir, sem hinir, er sídur sýnast verdskulda þad enn vér? Vid hvílíkar hugleidíngar gleymum vér optastnær því góda, sem Gud hefir gefid oss og því þacklæti, sem vér egum honum ad lúka. Lítid munum vér til, med hversu margfoldum velgjorníngum Gud hefir blessad oss. Lítid hugleidum vér allann þann kjærleika, nád og lucku, sem vér mundum í voru gjørvalla lífi jafnan hafa þeckt, ef vér med eptirþánka hefdum gaumgæfa viljad vort ásigkomulag. Lítid gætum vér þeirra medala, sem Gud brúkad hefir til ad gefa oss allt þad, sem vér vidþurfum, svo vér mættum ánægdir lifa; ja, enn framar: vér konnumst lítid vid þann mismun, sem er á oss og svo morgum þúsundum annara, sem mættu lángtum midur ánægdir lifa, heldur enn oss gefst orsøk til. Vér lifum í landi þessu fríir og frjálsir; en — hversu margir medbrædra vorra eru ecki innibyrgdir í í þraung fángelsi og óhollt lopt, liggja

á hørdum bálkum, fá ecki sól og sumir enga dags skímu ad sjá; Vér sofum optast vært á nóttum og rísum flestir heilbrigdir upp ad morgni dags; en — hversu margir medbrædra vorra eyda ecki nóttum med qveini og veini og døgum í sorg og sjúkdómum? Vér høfum þad, sem vér þurfum á ad halda til lífsnæríngar vorrar; en, hversu margar þúsundir manna leita þar á mót á stundum vída forgefins ad braudi og lífsnæríngu? Vér njótum heilsu og heilla; en, hve marga beygir ecki kross og karar-sæng djúpt í eymdir og vanvirdu? Vér øfundum adra af þeirra lucku; en — þeir hefdu meiri orsøk til ad øfunda oss. Því skyldum vér þá vera óánægdir med þad hlutfall, sem Gud hefir oss veitt, og sem efalaust er oss hid besta eptir voru ástandi? Sannfær oss, ó Gud! æ betur og betur um þad, ad hlutdeild sú, sem þú skamtad og útdeilt hefir sérhverjum af oss, sé hverjum og einum hin hollasta og gagnlegasta. En þar ed ánægt hjarta er hin dýrmætasta lucka í lífinu, svo géfdú oss nád til ad ødlast hana, ad ver ecki lengur vanvirdum þig med møgli og umqvørtunum. Minntu oss sífeldt á

vorn óverdugleika, sem ecki verdskuldar neitt af þeirri gædsku, sem þú í voru umlidna lífi hefir oss audsýnt; láttu þetta leida oss til ad prísa þig fyrir sérhvern velgjørníng, hversu lítilfjørlegur, sem hann oss virdast kynni, og styrkja vort trúnadartraust á þér; og hvernig skyldum vér vantreysta þinni nádugu stjórnun, þar vér sannfærdir erum um þína nád og þinn vísdóm! nei, eilíflegá skal sú vera ástundan vor, ad setja vora von til þín, ad óttast og elska þig; þessar dygdir munu leida oss til sífeldt ad vidurkénna þá lucku, ad vér standa megum undir þinni stjórnun. Þinn ótti skal vardveita oss frá syndum, og þinn kjærleiki hugga oss í hverju, sem ad høndum kémur; og med þvílíku sinnislagi fáum vér med glødu gédi tekid sérhverju, sem adber, já, gengid med djørfúng ámóti daudanum; því hvernig megum vér í honum vænta annars enn góds af þeim Gudi, sem í lífinu lét oss einbera gædsku í tje?

## 61. Hugvekja.

Hvad, sem þú gjørir, hugsa ber: hvert þvílík ydja hæfdi þér, ef í því verki ættir þú, andast þá strax og dæmast nú.

Hin besta regla, eptir hverri vér laga egum allar vorar athafnir, er sú: ad vér tídum samanberum þann dóm, sem vér sídarmeir fella megum yfir athafnir vorar, vid þad álit, sem vér nú høfum á þeim. Vér ættum á stundum ad íminda oss, ad vér lægjum sóttveikir; vér ættum einatt ad renna þaunkunum til þess óttalega augnabliks, þegar þessi nálæga tíd skal enda taka og eilífdin byrja. Opt ættum vér ad spyrja sjálfa oss: hvad mun eg líklega segja um þann lífernisháttt, sem eg nú færi, þegar þúngur sjúkdómur yfirfellur mig, medølin fá ecki líknad lengur, Læknirinn stendur úrrædalaus, en harmandi kjærustu ættíngjar og vinir umkríngja sæng mína, og allt þetta segir mér: ad eg standi á ytstu lífsins trøppu og á sjálfum grafar barminum? hvad munum vér þá oama um þad andvaralausa framferdi, í hverju vér nú daglega framgaungum og eydum mestum hluta æfi vorrar, og um lasta-fullar lystisemdir, sem gledja oss svo mjøg og svalla vorri tíd? hvern dóm munum vér um allt þetta fella á hinum skélfilega degi, þá himnanna kraptar munu hræra sig, jardarinnar

grundvøllur tekur til ad skjálfa, og høfud-skepnurnar brádna af hita, en dómstóllinn verdur reistur upp og bækurnar opnast, í hverjum allar vorar gjørdir, ord og þánkar, uppteiknadir eru? ef ad vér athuga vildum ádurnefnda reglu, mundum vér alla hluti álita med meira jafnadar gedi; skelfast mundum vér þá vid þvílíkar athafnir, sem vér nú í andvaraleysi leikum oss ad; óttalegar háskasemdir mundum vér á þeim vegum finna, hvar vér byggjum nú hættulaust. Ef ad vér lifdum samqvæmt þvílíku hugarfari, mundum vér á sérhverjum degi verda varfærnari, og engar dagsins athafnir byrja, fyrr enn vér yfirvegad hefdum allt, sem vér tækjum oss fyrir hendur; fyrr enn vér útgengjum, mundum vér spyrja sjálfa oss: hvert gengur þú? hvada freistíngar munu þér mæta? hvada tækifæri munu þér bjódast til ad gjøra gott! þegar vér þannig þerum tídum oss saman vid sjálfa oss, mundum vér brádum framførum ná á dygdanna vegi, hversu, sem vér ádur hefdum afvega gengid. Ó Gud! vort athvarf er því til adstodar þinnar: kénn oss ad leggja stund á

þessa ydsu, er vér sjáum oss svo nytsama, svo heilsusamlega, og fyrst þú gafst oss skynsemdarfulla sálu, svo gefdu oss nád til sro ad lifa, sem skynsømum manneskjum vel sómir. Já, þú, sem hefir oss leidt fram á þessa vegferd í heiminum, vid hverrar endir vér finna munum annadhvert líf eda dauda, eilífa lucku ellegar eilífa ólucku, virdstú svo ad stjórna øllum vorrar vegferdar fót-stigum, ad vér hreppa mættum þá sælu, sem á ad vera tilgángurinn allra vorra óska og athafna! gef oss enn þá tíma til ad hugleida vora vegu og snúa oss til þinna réttinda, og svo ad vér innifelum þad allt, sem vér umbidja þurfum í eina einustu ósk, bidjum vér nú, ad þú, ó Gud! virdist ad gefa oss þann vísdóm, náqvæmlega ad hugleida vora endalykt og dóminn, sem a eptir mun fylgja, en svo lifa, ad vér vid þessar mikilvægu umbreytíngar, enga orsøk fáum til ad gráta þá dagana, sem vér lifdum hér, heldur eilíflega fagna og gledjast hjá sjálfum þér í dýrdinni.

62. Hug-

# 62. Hugvekja.

Sannlega, sannlega segi eg ydur: hvers þér bidjid Födurinn í minu nafni, þad mun hann veita ydur. Jóh. 16.

Jesús hefir þad afrekad oss, ad vér nú bidja þorum almáttugann Gud; hins skammarlegasta óþacklætis gjördum vér oss seka, ef vér vanvirda vildum þennann vorn Herra í vorri Guds þjónustu, voru þacklæti og bænum vorum; aldrei viljum vér gleyma því; ad Jesús er sá, hverjum vér þacka egum allt þad hjálpræði, sem oss er gefid í tíma og eilífd. Einúngis fyri hans verdskuldun erum vér Gudi þócknanlegir og megum vænta oss bænheyrslu. Fyri hann fáum vér fullvissu þá, ad Gud, sem máttugur er ad blessa oss, vilji þad einnig gjöra. O! ad vér ætíd, þegar vér framberum naudsynjar vorar fyri Gud, minntumst þess dýrmæta sannleika; ad sá Gud, sem vér áköllum, er Fadir vors Drottins Jesú Krists! med því trúar-öruggara trausti, og med því meiri djörfúng munum vér þá voga ad snúa oss til hans, og fela honum á vald vorar egin og vorra medbrædra naudsyn-

jar; þar við mun og hjarta vort end=
urlífgast, að vér, fyrir krapt heilags
Anda, kalla megum Jesúm Krist vorn
Drottinn og með trúudu hjarta eigna
oss það allt, sem þessi vor Endur=
lausnari hefir afrekað oss; þá mun
vor trú vaxa og vort traust á honum
aukast. Til þín, eilífi Sonur Guðs!
nálægjum vér oss á þessari qvöld=
stundu; bið þú einnig með og fyrir oss,
vér viljum ásamt frambera fyrir þig
vort þakklæti fyrir svó margfalda náð
og trúfesti, er vér þegið höfum fyrir
þína fyrirbón og forþénustu; þinni
fyribón er það að þakka, að vér enn
þá lifum, og að vor náðar=tíð er ekki
enn á enda; gefðu oss framvegis þína
lífkröptugu náð, og lát oss brúka hana
til vors frelsis og sáluhjálpar vorrar.
Láttu öll vor fyrirtæki blessast, og sak=
ir þinnar heilögu pínu, allar vorar
syndir bættar og gleymdar vera; yfir=
gefi oss aldrei þín náðuga hjálp, því
hvað værum vér án þinnar náðar ann=
að enn aumar útskúfaðar sképaur?
kasta oss ekki burt, þó vér vanvirðt
höfum vora útvegudu endurlausn og
þína náð, með gálausu líferni, og verð=
skuldað þína réttlátu reiði og hegn=

íngu; hafðú enn þá umburðarlyndi og þolinmæði við oss, vegna þinnar miskunar; láttú það ávaxtarlausa tréð enn þá standa óupprætt, enn þá óupphøggvið, þó það enga nema skaðlega ávøxtu færi; auglýstu þína vegsamlegu náð á þínum endurleystu. Lát tølu þinna trúu þjóna sífeldt aukast, og styrk þá æ meir og meir í trú og elsku til þín. Vér biðjum ásamt fyrir smánurum þíns nafns, sem setja sig upp á móti þér og þinnar náðar løðunum; fyrir þeim harðsvírudu, hverja þinn Andi hefir híngað til forgéfins leiða viljað til yfirbótar. Vér biðjum fyrir øllum heiminum, láttú þitt dýrðlega nafn æ meir og meir útbreiðast og tignast, og loks þá tíð koma, að gjørvallur heimurinn viðurkénni þitt nafn og lúti þínu veldi. Amen!

# 63. Hugvekja.

Leggið hug á hið himneska, en ecki á það jarðneska. Cól. 3.

Allir hlutir sannfæra oss um það, að vor mikilvægasta tíð er fyrir høndum, þá lífið er á enda. Gjørvallur heimurinn með øllum sínum umbreyt-

íngum og óstoduglcika sannar það, vort egið ásigkomulag, óskir vorrar sálar, veikleiki vors líkhama, sú stutta tíð, sem vér dveljum hér á jörðunni, lífsins við- stöðulausi hraði, í einu orði að segja: allir hlutir prédika oss þann sannleika, að vér séum ágvarðaðir til að lifa ei- líflega. Þó fáum vér hér um enn sterk- ari fullvissu þegar vér aðgætum sjálfa oss, sem þá, er af Jesú Kristi erum frelsaðir. Allar þær qvalir og þján- íngar, sem Jesús þolað hefir, allir þeir velgjörníngar, sem hann hefir oss af- rekað með sinni verðskuldun, eru jafn- margar röksemdir fyri því, að sála vor sé ágvörðuð til eilífrar sælu. Ómælan- lega gleði-orsök höfum vér af þessari yfirvegun; en — aumkunarverðir eru margir vorir meðbræður, sem fram- gánga eptir sínum egin tilhneigíngum, en gleyma þeirri eilífð, sem Guð hefir þeim fyrirhugað. Samt sem áður, þó þessir ólukkulegu villist af sönnum luckuvegi og gleymi sinni farsæld, gleymdú þó ecki, sála mín! að þú lifir hér í heimi til þess, að þú megir eilíf- lega lifa; þitt blindaða hjarta gjörir þér syndina girnilega, en gleymdú ecki að lastanna háskasama ánægja ætti að

vera þeim viðbjóðsleg, sem þeckir eilífð-
arinnar yndisfullu gleði. Þegar þú
stendur við, þreytist, eður ætlar að
þorfa til baka á guðhræðslunnar vegi,
æ! gleymdú þá ecki, að dygdanna veg-
ur hefir luckusæl afdrif í eilífdinni.
Þegar þessa lífs þreyngíngar ætla að
gjöra þig huglausa og magn-þrota,
gleymdú þá ecki, að það er hin mesta
vanvirda og ólucka, að géfa eilífðar-
innar farsæld við þessa heims fallvöltu
lucku. Þegar þú nú lokſins skilur við
þetta jarðneska hreysi, gleymdú þá ecki,
að eilífðin, til hverrar dauðinn færir
þig, mun fullkomlega umbuna þér
þenna lítilfjörlega missir, sem þó ecki
má nefnast svo, heldur ávinníngur.
Eilífðin, til hvorrar vér erum áqvarð-
aðir, veri því vort stöðuga mark og
mið, en tilhugsan hennar skal gjöra
oss hæfilega til, að brúka vel þann
stutta tíma, undir hverjum komin er
vor gjörvalla lucka eða ólucka í ei-
lífðinni. Vér skulum því með varúð og
gætni brúka vorar fáu lífsstundir á
jörðunni. Vér skulum ítarlega athuga
allar vorar gjörðir og dæma um þær
eptir því endurgjaldi þeirra, sem vér
á síðan væntum í eilífdinni. Lángt sé

frá oss ad láta vorar óskir og astundun einúngis mida til þessa stutta og fallvalta lífs luckn og ánægju. O! eilífdarinnar Fadir! kenn oss þenna vísdóm og innrættú djúpt í vorum sálum, ad vér skapadir séum og endurleystir til þess vér lifum eilíflega. Hvad værum vér ef þetta væri oss hulid? hvad væri vort líf og vor daudi, ef vér ecki trydum þessu? en — þó gjøra þessa heims stundleg gædi svo opt ad engu hjá oss þenna gudlega þánka. Ó! virdstú nú sjálfur, gódi Gud! ad vekja þenna þánka hjá oss og vidhalda honum í sálu vorri! Gef þú sjálfur nád til þess, ad vér ecki ad eins høfum eilífdarinnar umtal á vørunum, heldur ad hennar yndislega tilhugsan megi støduglega innrætast vorri sálu. Um þessa nád bidjum vér þig, eilífi, ástkjæri Fadir! Kénn þú oss ad hugleida þad á þessari stundu, ad vér egum kost á ad verda innbyggendur annars betra heims og þín børn í eilífdinni. Einnig þessi dagur og sérhverr hans tími er vor undirbúníngs tíd undir þá sídustu umbreytíngu. Þegar þú stjórnar oss, munum vér brúka sérhverja stund til eblíngar vorri sønnu velferd, en vid sérhverja

tillockun til ens vonda, sem quiknar í hjartanu, vid sérhverja þjáníngu, sem vér lídum, vid sérhverja freistíngu, sem oss mæta kann, sífellt hughreystast vid þá íhugun, ad vér lifum hér til þess, ad vér megum sídarmeir lifa hjá sjálfum þer eilíflega.

## 64. Hugvekja.

Vissu lífs eilífs lér, Lausnarans sigur mér, megnar ei mig ad fæla, myrkur grafar né kjæla, um jord all-litid géf eg, í Jesú lífs-von hef' eg.

Svo myrk og hulin, sem oss er hin ókomna tíd og þau tilfelli, sem fyrir oss liggja, er þad þó efalaust, ad ókomna tídin er oss mikilvæg, því vér egum fyrir höndum endalausa eilífd. Ómögulega gétur þessi veröld verid sá stadur, hvar allt, sem mannedli voru er ætlad, kunni ad mæta oss. Værí hún vors sídasta takmarks og farsældar land, mundi hún ecki — hversu girnileg, sem hún virdist — vera svo eymda og armædu-full, sem hún opt er í raun og veru. Vor líkhami hefdi þá ecki heldur svo margar umbreytíngar og veikleika ad strída vid; þá ætti líka vorrar sálar ósedjanlega farsældar

laungun hér kunna ad mettast, en í voru hérvistar ástandi verdur tilgángur alls þess nálæga veraldarinnar, lífs vors og sálar og vorra gjørvallra tilfella vera oss óskiljandi, ef vor sídasti samastadur ætti ad vera hér í heimi. Nei! Guds forsjónar fyrirætlan med oss, hlýtur ad ná miklu lengra enn til þessa stutta og mædusama lífs. Vér erum vissulega áqvardadir til lángtum ædri hluta, enn einúngis ad gráta hér í lífi og gledjast, eda ad lifa stutta stund og deya svo aptur; þó eckért í heiminum gæfi oss hér um nockra upplýsíngu, þá mætti þad þó vera daudi vors Frelsara. Mundi Guds Sonur hafa dáid einúngis til þess, ad vér yfrid stutta stund kynnum ad njóta fárra ánægjusullra augnablika og lystisemda þessa vors skammvinna lífs? Mundi hann hafa nidur af himnum stígid einúngis til ad gjøra oss svo skammvinna stundar dvøl á jørdunni léttbæra og yndislega; en hvørsu þúng og sorgleg er hún þó ecki allmørgum vorra medbrædra? Mundi hann hafa úthellt blódi sínu oss til frelsis, en vér þó ecki varir verda vid not og ávexti þessarar dýrmætu endurlausnar?

ellegar, strax og vér hefdum þessa varir ordid, missa alla hennar nádar heill og not og huggun í daudanum, væri vort líf þá eilíflega þrotid? Nei, vissulega sannfærir oss verdskuldan vors Frelsara þar um, ad vér áqvardadir og ætladir séum til lángtum ædri og lángvinnari farsældar. Efalaust mun annar og betri heimur oss geymdur, hvar vér njóta munum þeirrar lucku, ad vera á medal Jesú endurleystu, gæddir lángtum ædri fullkomnun enn hér í heimi er møguleg, med ødrum ordum: vér munum eilíflega lifa. Þegar vér þannig virdum fyrir oss vort líf hér í heimi, fær þad í vorum augum allt annad útlit. Hverr einn partur þess, hversu lítilfjørlegur sem hann er, verdur oss þá mikilvægur, þar hann er náqvæmlega samtengdur oss fyrirbúnum ódaudleg-leika; vér megum því ecki reikna þetta nálæga líf eptir þeim fáu døgum, sem þad vara kann, heldur eptir þeim tilgángi, hvers vegna þad er oss géfid og hvartil þad midar; hvers vegna vér verdum ad lifa þannig, sem vér óska mættum best ad búa oss undir þá óendanlegu áratølu, er vér egum fyrir

høndüm ad lifa. Samqvæmt þeim ásetníngi og þeſsu hugarfari viljum vér, med Guds náð, leitaſt við ad laga vort líf þann tíma æfinnar, ſem enn- þá eptir egum; veri ſá þánki ſifeldt vakandi í vorri ſálu: ad vér ecki ſèum áqvardadir fyrir heiminn, heldur him- ininn; því ſtødugri, ſem hann verdur í voru hjarta, því framar á vort líferni á jørdunni adlíkjaſt voru komanda lífi í himninum; þá ſkal himneſk ánægja fylla vort hjarta; þá ſkulum vér keppaſt eptir ad ødlaſt eilíf gædi; þá ber oſs nú ad elſka þá hér, ſem ſídarmeir eins munu verda vorir lagsbrædur í himn- inum. Innrætti oſs þetta hugarfar, gódi Gud! med kroptugri nádarverkun þíns Anda; hverſu bleſsud verdur oſs þá ecki ſú nálæga tíd, hverſu mikil vor gledi, vor ſálar róſemi, vor lucka bædi í lífi og dauda!

## 65. Hugvekja.

J verndar þinnar ſkjóli' og ſkugga, ſkulum vér lifa ſorga frí, fyrir ótta, fyrir ugga, fridi gódum jafnan í. Gud þín miſkun eilíf er; eins fram- vegis géf oſs hér, allt hvad þurfum og til þinn- ar, ávalt þénar dýrdarinnar.

Vidhald vors lífs er eitthvert meſta dáſemdar verk Guds, á hverju vér

á sérhverju augnabliki þreifa megum; þegar vér yfirvegum vors líkhama veiku byggíngu og skodum þær ótel-jandi háskasemdir, sem honum eru búnar. Þegar vér adgætum vora vangætslu og hyrduleysi um vidhald vors lífs, megum vér undrast, ad vér ecki fyri laungu sídan urdum daudanum ad herfángi. Efalaust hlýtur einn Gud ad vera til, er beri allteins mikla umhyggju fyrir hverrar einnar mann-eskju lífi og vidhaldi allrar náttúrunn-ar. Væri hann ecki til, mætti vaggan verda vor grøf, ómálga aldurinn vort endadægur, svefninn vor daudi og sér-hverr dagur óláns dagur. Vér lifum þó enn, getum enn þá hrært limi vora og erum velflestir heilbrigdir. Allir þessir velgjørníngar mega áþreifan-legar sannfæra oss, en jafnvel skírustu røksemdir skynseminnar um það, ad einn Gud sé til og ad þessi Gud sé vor Gud, vor Fadir og vidhaldari vors lífs. Værum vér ecki hér um sann-færdir mættum vér vid uppruna sér-hverrar morgun sólar, vid sérhverrar nætur adkomu, óttafullir renna þaunk-unum til hvers eins komandi tíma vors lífs og ósjaldan segja vid sjálfa

oss: þar sje eg fyrir háskasemdir þær, sem munu tortýna mér; þar munu mér óvinir mæta, sem framqvæma munu á mér vondan ásetníng sinn; þar sje eg einn ógudlegann, sem mér steypa mun í þá ölucku, sem hann hefir mér fyrirbúna; þar sje eg votnin, sem munu dreckja mér, eldsvodann, sem mun mig uppbrenna; þar sje eg fyrir þad tilfelli, sem mun kollvarpa mér; med þvílíkum ørvýlnunar þaunkum mættum vér vænta sérhvers ókomins tíma, ef vér ecki hefdum þá øruggustu fullvissu um vors Guds nádugu og vísu forsjón og stjórn yfir voru lífi. Af øllu hjarta prísum vér þig miskunsami gódi Fadir! ad þú, ásamt trúnni um þína forsjón, gefur oss svo dýrmæta huggun og rósemi. O! hversu vanvirdum vér ecki þína gædsku, ef vér enn þá erum vantrúadir, sem høfum svo miklar røksemdir um þína forsjón. Géf ad vér aldrei séum óþacklátir, heldur sífeldt þacklátlega minnumst, hversu vér reynt høfum þína truføstu gædsku, og ætíd meir og meir upphvetjumst til ad setja allt vor traust á þig, og þetta skal nú vort fyrirtæki og ásetníngur á þessari stundu. Í trúnni til þinnar

almáttugu gædsku tökum vér ógvídnir komandi tímunum. Svo veikur og vanmegna, sem vor líkhamí er, treystum vér þó þínum krapti, sem viðheldur oss og styrkir. Svo skammsýnir sem vér erum til að fyrirsjá þær háskasemdir, sem oss kynnu mæta, treystum vér þó á mátt þinn og vísdóm, sem þjer þær allar og ert máttugur að afvenda þeim. Vér vitum eckí sjálfir hvers vér egum að óska oss, eða fyrir hverju vér egum að óttast; virdstú sjálfur að uppfylla allar vorar óskir, sem nytsamar eru, og frelsa oss frá öllu vondu, sem kynni skaða oss. Unn oss æ að lifa undir þinni umsjón, undir Jesú náð og undir stjórnun þess heilaga Anda, og njóta þeirrar sælu, að elskast og blessast af þér, þá gaungum vér óskéifdir á móti sérhverju lífsins hættulegasta tilfelli, sem oss mæta kann, þareð vér höfum þann að reiða oss uppá, sem er almáttugur, og öllu vill og kann að snúa oss til besta.

## 66. Hugvekja.

Betri er einn þurr biti, láti maður sér nægja, enn fullt hús matar með þrætu. Orðsqv. b. 17.

Þau eru efalaust best og heilladrjúg-ust lucku-kjør fyrir hvern einn af oss, sem sérhverjum í sinn stad eru út-hlutud, hversu ójøfn og þar hjá und-arleg, sem oss allopt virdist útdeilíng þessarar jardnesku heims lucku, yfir hverri vort óánægda hjarta ósjaldan heimuglega møglar, mun þad þó reyn-ast efunarlaus sannleiki, ad sá alvaldi Stjórnari allra hluta útbýti þessa lífs gædum med vísdómi og gædsku þann-ig, sem hans alvitska sjer hverjum ein-um best henta. Ad vera um þetta í hjarta sínu sannfærdur, er ecki lítil lucka, því þessi fullvissa vidheldur sannri sálar rósemi, vardveitir hjart-ad frá nagandi øfund og eydir máta-lausum umqvørtunum; hversu ánægd-ir byrjum vér ecki sérhvern dag og end-um hann eins rólega, þegar sérhverr af oss er fulltrúa þar um, ad sú lucka, sem Gud úthlútar oss, þad ástand er hann hefir sett oss í og þau tilfelli, sem hann áqvardar oss, sé besta hlutskipt-id, er í vort skaut gat fallid, og ad sjálf-ir vér aldrei hefdum getad valid eda óskad oss annars betra. En — máské þessi sinnis ánægja sé á þessari stundu fjarlæg voru hjarta; máské óskir þær

hvarfli oss í huga: ó að eg væri eins ríkur, eins lukkusæll sem margir aðrir meðbræðra minna! máské þessi ósk og eptirlángan verði hjá oss enn þá frekari þegar vér nákvæmar gaumgæfum útbýtíngu þessara lukku gæða og þykjumst varir verða, hversu misjafnt þeim útbýtt er meðal þeirra, sem oss finnst miður enn vér hafa til þeirra unnið. En — vitum vér þá sjálfir hvers vér óskum? máské vér verðum annars hugar, þegar vér samjöfnum því vér höfum við hitt, sem oss vantar. Séu vor kjör að nokkru lakari enn annara, eru þau í mørgu aptur miklu betri. Máské ver egum engann kost á að njóta þessa heims gæða og hans lystisemda með frjálsu og hindrunarlaust, en undir eins erum ver fríir frá svo mørgu íllu; fyrir margføldum freistíngum til ens vonda erum vér óhultir; oss mæta þá lángtum færri tækifæri og ginníngar til að styggja Guð, til að meiða samvitsku vora og líða skipbrot á vorri trú; færri óvini egum ver þá að stríða við, sem sækjast eptir vorum fátækdómi. Margir meðbræðra vorra lifa máské í lystisemdum og gleðja sig á margann hátt; en — munum vér

fyri það ógæfulegri, ef vér finnum því sterkari laungun hjá oss eptir því himneska og þess meiri frið í sálu vorri; máské það ásigkomulag, sem vér øfundum svo mjøg aðra af, megi gjøra oss lífið yndislegt og geðfeldt, en þá vér fáum nú ecki lifað sældar lífi, kunnum vér þó með því meiri hjartans gleði og rósemi, að henkja til dauðans og lokssins skilsa við þetta líf, sem þeim luckulegu fellur opt svo þúngt, að yfirgéfa; þann jarðneska ríkdóminn, er þeir einúngis leituðu sér ánægju í, vildu þeir aldrei þurfa að missa. Það ásigkomulag, sem vér óskum oss, er máské eptir vorri meiníngu og heimsins áliti betra og geðfeldara, enn hitt, sem Guðs áqvarðan hefir sett oss í, en þó efalaust eptir hans vísustu og bestu ráðstøfun oss lángtum betra. Géf þú oss, ó Guð! að þessar hugleiðíngar um vor luckn kjør og ásigkomulag í lífi þessu, hafi þá kroptugu verkun í hjarta voru, að rósemi vorrar sálar megi þar við rótfestast og aukast; géfðu oss náð til að efla vora sáluhjálp í því ástandi, sem þér hefir þócknast að setja oss, án nockurs vyls, óánægju og óþolinmæði. Varðveittu oss frá dramb-

semi, þócknist þér að géfa oss þessa lífs lucku, en frá örvýlnun og efasemi, þó þú letir óláns tilfelli bera oss að höndum. Géfdú oss þar á mót náð til að auka við upplýsingu vorrar skynsemi og ætíð að líta í huganum framyfir takmörk þessa nærveranda lífs til annars betra heims og við þá skoðun uppörfast til að afneita þessum heimi og því, sem í honum villa kann fyrir oss sjónir á því himneska, en lifa guðrækilega, réttilega og hóflega hér á jörðunni, ánægðir með hvað helzt þín mildi úthlutar oss.

# 67. Hugvekja.

Réttlæti góðs manns gjörir hans veg sléttann. Orðsqv. b. 11.

Sú ætti að vera vor kappsamleg ástundan, á meðan vér lifum í mannlegri sambúð í heimi þessum, að vér ávinnum oss svo elsku og góðhocka vorra meðbræðra, að vér gjöra kynnum oss víssa von um, þegar vor hérvistar tíð er á enda, vinir vorir og kunníngjar hefðu orsök til að sakna vor og syrgja vorn missir og sérhverr ráðvandur harma vorn viðskilnað.

Takist oss þannig ad hegda oss á medan vér lifum, megum vér þegar álíta vort líf luckulegt á jördunni, því aldrei verdur loflegra líkvers súngid yfir moldum vorum, heldur enn þegar gudhræddir og rádvandir úthella vid líkkistur vorar þeirri hjartans ósk: Gud gæfi hans líki kæmi nú í hans stad, úr því ecki vard lengur audid ad njóta hans samvista! en þar á móti fær þad litla huggun og ánægju veitt, þegar vér högum þannig voru lífi, ad vér vitum oss hafa til einkis lofstýrs eda saknadar unnid ad oss öndudum, og eckért liggur lofsverdt eptir oss, því hvad eru gudur, yfirlæti eda lystisemdir? lofstýrs fyrir þvíumlíkt viljum vér eptirtalnalaust unna þeim fávísu, sem ákafast sækja eptir þessu, en þanninn viljum vér lifa, ad rádvandir sakni vor, og vinir syrgi vorn missir. Vér skulum ástunda, ad géfa þeim, er oss þeckja, orsök til ad blessa vora minningu, og ad álíta oss verduga lofstýrs fyrir vort líferni, og einlægrar sorgar yfir vorum missir. Ef vér leggjum kapp á ad lifa dygdugu lífi, ástundum vér gudrækni, miskunsemi, rádvendni, hófsemi, svo munu jafnvel óvinir vorir

verda leidast til ad lofa vorar dygdir, og hversu freklega, sem þeir øfunda oss, þó láta oss á stundum njóta sannmæla. En auk þessa má það huggunar-ríkt vera ættíngjum vorum og vinum, ad njota gladværrar fullvissu, af voru dygduga líferni, um vorrar sálar eilífa føgnud og sælu, þar vér lifad høfum í Guds ótta, og deyandi afhendt honum med øruggri trú sálu vora, sem hana gaf. Eckért fær betur aflétt þeirra sorg, eckért betur afþurkad þeirra harma-tár og eckért framar gladt þá, en eptirlánganin ad ná oss innan skamms í sømu sælu høfn og vér sigldum inní rétt á undan þeim. Nú þegar viljum vér taka fyrir oss ad lifa þannig, ad þó vér brádlega deya ættum, verdi vor daudi samt bædi loflegur og sáluhjálplegur. Til ad ødlast þvílíka endalykt, þurfúm vér ecki ad óska oss gráhærds gamalmenna aldurs; þó vér skilja egum vid þetta líf midt í vorum blómstrandi aldri, høfum vér samt yfrid lengi lifad, þegar vér ad eins lifum dygdugu og rádvøndu líferni; því margur leggst sá gamall í grøf, hvers dygdugu athafnir í lífinu funduſt færri teljandi enn

árin, sem hann lifað hafði, en þeim vísa fundust dagar sínir aldrei offáir, því allir vóru þeir prýddir loflegum dygdum. Hvílíkrar hrósunar skulum vér leita oss, þannig ber oss að lifa, að enginn sá ráðvandur fylgi oss til ens síðasta legstaðar, sem ecki blessi vor bein í grøfinni, og finni vort líferni verið hafa uppbyggilegt og gott. En margur mætti sá vera, sem ókenndur af almenníngi, gengur út frá þessu lífi, og verður því fáum harmdauður; en það skal oss liggja í léttu rúmi, þegar vér að eins getum áunnið oss vors Dómara velþócknun og notið útvaldra vegsemdar. O! þegar vér einúngis øðlumst að vera í þeirra sæla hópi, er oss það fyri minnstu þó engin grafskrift hrósi minníngu vorri, né vor viðskilnaður verði af mørgum harmaður. Eptir þessari hrósun fyrir Guði, viljum vér einkum képpast; hans velþócknan mun endurnæra vora sálu, þegar vér eptir vorn dauða máské enga hlutdeild fáum í manna lofstýr.

## 68. Hugvekja.

Snú þér til Guðs þíns, vertu miskunsamur og réttvís og treystu ætíð á Guð. Hós. 12.

Þessi skal þá vera sú stund, á hverri vér viljum snúa oss til Guðs, yfirgéfa vora syndsamlegu vegu, en keppast eptir sönnum Guðs ótta. Einhverntíma hlýtur þó að því að koma, að vér tökum oss fyrir hendur það verk, hvers framqvæmd vér svo opt að undanförnu höfum slegið á frest. Líf vort er stutt og dauðans tími óviss; hvert augnablikið er dýrmætt; sönn ydran mjög sjaldgæf; en þess dæmi svo mörg, að manneskjum verður í skyndíngu burtu kippt. Hverninn mættum vér draga yfirbót vora undan til ókominna tíma? vitum vér þá, nema dauðinn svipti oss lífinu miðt á þeim árum, sem vér brúkum til þjónustu heiminum og syndinni? auðveldlega gétur það aðborið, að Herrann, sem vér væntum ecki koma mundi fyrr enn að qvöldi dags, koma muni að morgni, eða um miðjann dag og krefja oss til reiknings; en jafnvel þó þetta yrði ecki, þó að dauðinn yfirfélli oss ecki voveiflega, þó að vér lifðum til elli-ára og yrðum saddir lífdaga, munum vér þá hafa fúsari tilhnegíngu og meiri krapta til betrunar og yfirbótar vorrar, heldur enn nú? nei, fjærri fer

því! því lengur, sem vér lifum í andvaraleysi og syndum, því framar forherdist vort hjarta, því heldur upprætist hjá oss øll tilfinníng til ílls og góds, og því hugsunarlausari gjørumst vér um frelsi vorrar sálar. Drottinn á rád á sérhverjum aldri, og sérhverri stundu vors lífs, ecki er þad oflángt til þess, ad vér brúkum þad allt, hvert heldur þad verdur lángt eda stutt, til dýrdar honum, sem gaf oss þad og hét oss í umbun ódaudlegu lífi. Nú skulum vér því afhenda oss øldúngis þér á vald, almáttugi Fadir vors lífs! nú skulum vér hlýdnast þinni røddu, sem vér svo tídt høfum daufheyrst vid! vér viljum nú velja oss þann veg, sem híngad til hefir verid oss svo qvídvænlegur; vér viljum afneita þeim lystíngum, sem verid hafa oss svo kærar og slíta oss frá heiminum, sem híngad til hefir haldid oss faungnum. En — ó vor Gud! hversu opt høfum vér ecki haft sama ásetníng? optlega høfum vér svarid þér ellíflega ad elska þig, en eins opt brotid þetta særi aptur. Fá eru þau augnablik, sem vér fengum stødugri stjérnum haldid yfir hjarta voru. Þúsundsinnum, já, optar, høf-

um vér gjørst þér óhlýðnir eptir að vér þó að øllu leiti gáfum oss þér til þjónustu. Hversu opt høfum vér ecki mátt sanna sjálfir, hversu breiskir vér erum og ótrúir, þegar vér á samri stundu drýgdum þær syndirnar umhugsunarlaust, sem vér á næsta augnabliki áður létumst hafa mesta viðbjóð á? hversu marklaus eru þá øll vor heit, góði Guð! fyrst allur vor ásetníngur, allt vort hjarta er svo hvikult og umbreytanlegt? O Drottinn! kom þú oss til hjálpar með þinni náð! vér høfum nú nockuð hrærst við þessa íhugun, æ! láttú þessa hræríngu viðhaldast í vorri sálu. Vér høfum nú tekið fyrir oss góðann ásetníng; æ! styrktú oss til að viðhalda og framfylgja honum! vér heitum þér enn á ný hollustu og trú um alla eilífð, æ! styrk oss til að halda þetta heit, svo vér ecki með ótrygð brjótum af oss þína náð, og køllum yfir oss þína reiði, né tøkum, miðt í heimsins solli, aptur það offur, sem vér nú færum þér, á meðan vér enn þá hugsum um þig og sáluhjálp vora. Láttú þá hlýðni, sem vér nú sverjum þér, þá elsku, sem vér nú lofum þér að auðsýna, þann ótta, í hverjum vér heitum

ád framgánga, ecki verda eins skamm-vinn og þessa bæn vora. Styrk oss, svo vér mættum æ stødugri verda í þinni þjónustu, minna meta heimsins glis, og styrkjast gégn øllum freistíngum. Varðveittu oss frá óstøduglyndi og þeim svikrádum, sem heimur þessi hefir oss búid. Undir þinni varatekt og adstod vonum vér ad fá framgengid þér þócknanlegar hér eptir enn híngad til, og vogum ad vænta oss þeirra verdlauna, sem þú hefir fyrirheitid þeim, sem eru þér trúir allt til daudans.

## 69. Hugvekja.

Komid til mín allir þér, sem mæddir erud og þreyttir, eg vil géfa ydur endurnæríngu. Matth. 11.

Vort gjørvalla líf á jørdunni er fullt af mædu og sorgum; eitt andstreymid fylgir—svo ad segja—hinu á eptir; hversu marga glada og luckulega tíma fáum vér talid á móti hinum sorglegu? Færri eru þeir dagar oss hugfastir, á hverjum vér nutum hreinnar glедi án sorga, þegar allt var þó samfara, sem glедja mátti vort hjarta, svo sem: heilbrigdi vor og velgengni og vina og frænda vorra hugar

rósemd og andans fridur. Sjaldreynt mun ad allar vorar óskir veitist oss í einu; séum vér ríkir, vantar oss á stundum heilbrigdi; séum vér heilbrigdir, vantar opt ríkdóm; höfum vér þetta hverttveggja, vantar opt trúrra vina adstod og yndi, já, opt hid allra markverdasta, vantar samvitsku rósemi. Hvert vér höfum mikid eda lítid, höfum vér þó aldrei allt, sem vér óskum oss; stundum hrellir oss eitthvert nálægt mótlæti, stundum koma oss aumar og vesælar manneskjur fyrir sjónir, hverra eymdir uppvekja vora medaumkun; stundum gagntekur oss skélfandi ángist, annadhvert af vaknadrar samvitsku áklögunum, eda allt of hastri blóds-hræríngu. Stundum fyllumst vér óróa af óvæntum skada, sem oss ber ad höndum, eda ef eitthvad þad brást oss, sem vér gjördum oss vissa von um, ellegar huld hönd Guds forsjónar typtadi og audmýkti oss. Þegar vér íhugum þá daga, á hverjum oss mætt hafa einhver þesshattar óblíd tilfelli; þá daga, sem vér eydt höfum í sællífi, svefni eda syndugri dægra-stytt-íngu; þegar vér minnumst þeirra daga, sem vér brúkudum til fram-

qvæmdar ymsu ósæmilegu áformi; þegar vér loksins íhugum þá daga, sem vér vorum sjúkir, eda og midur ánægdir; þegar vér, segi eg, yfirvegum nú alla þessa daga vors lidna lífs, hverja vér hardtnær álíta megum eins og þeir aldrei hefdu til verid, og berum þá saman vid hina, á hverjum vér í raun og veru höfum nockru gódu af stad komid, ellegar vid þá daga, á hverjum vér nutum sannra heilla, þá munum vér finna, ad mjøg litid eda eckért verdur lífdaga vorra, um hverja ecki megi med fullum rétti adqveda med Jobs ordum: madurinn af qvinnunni fæddur, lifir stutta stund og er fullur óróssemi. Hvernig mundi oss þá farnast, ef vér lifa ættum þessu óróssama og sorgfulla lífi, án þess ad ega þann ad, sem med vísdómi og gædsku vidheldur lífi voru? æ! þá hefdum vér med réttu nóg efni og orsøk til ad vera óþolinmódir og óska oss daudans. En þared allt þetta mætir oss undir stjórnun og umsjón þess miskunsama og almáttuga Guds, megum vér gladir og ánægdir vera med hvad helzt, sem ad höndum ber. Þetta er sú mikla huggun, sem gledur oss, þegar vér á

sérhverjum degi inngaungum svo ad segja nýtt líf. Trúar-traustid á almáttugum heimsins stjórnara, blandar huggun og gledi í allar vorar sorgir í þessu nærveranda lífi. Þær røksemdir, sem vér ad undanførnu fundum um hans nádarríku stjórnun, gjøra vort sinni rósamt og ánægt. Hann mun stýra voru gjørvalla lífi eptir sinni alvísu gædsku þannig, ad oss jafnvel í mótlætinu, géfast mun nóg orsøk til ad vegsama hann og vér munum á nærverandi tíma finna nóg efni til þess; jafnvel naudir þær, undir hverjum ýmsir medbrædra vorra verda ad qveina og andvarpa, fá oss þar um sannfært, ad Gud høndlar nádarsamlega vid oss, þared hann gjørt hefir eymdir vorar oss lángtum þolanlegri enn margra annara. Já, í øllum tilfellum munum vér þar um ad raun komast, ef vér ad eins adgætum Guds undrunarlegu vegu, ad hann leggur manneskjunum ad sønnu byrdi á herdar, en undir eins hjálp til ad bera hana.

## 70. Hugvekja.

Mín sála gledur sig í Gudi heilsugjafara mínum. Lúk. 1.

Hversu mædufullt, sem þetta líf er á stundum ad álíta, vantar oss þó ecki, á medan vér lifum, gledi og sinnis ánægju, ef vér sannkristnir erum, þegar ver lyptum vorum augum í hædirnar til Guds, sem hefir oss skapad; þegar vér virdum fyrir oss hans óendanlegu og þar hjá svo gædsku- og gódgjördasömu hátign; þegar vér setjum oss lifandi fyrir sjónir hans dýrdlegu og elskuverdú eginlegleika, med hversu yndislegri gledi uppfyllist þá ecki sála vor? Þessarar ánægju og gledi megum vér daglega adnjóta, ef ad vér taka vildum oss fyrir hendur ad skoda og hugleida dásemdarverk Guds bædi í náttúrunnar og nádarinnar ríki; daglega höfum vér þad fyrir augunum; ætíd er oss því unnt, ad skémta oss vid þeirra prýdi; aldrei ættum vér ad letjast í því, ad upporfa sjálfa oss til elskunnar vid Gud med náqvæmri adgætslu hans undrunarverdu dásemda, því ad vanrækja þad, er ad gleyma Gudi, sem med svo augljósum, svo adáanlegum hætti, hefir audsýnt oss svo mikinn kjærleika, og látid oss reyna sína undrunarlegu og gædskuríku vegleidslu þannig, ad vér ad minnsta

kosti vid endalok lífdaganna munum vidurkénna mega: ad hann hafi alla hluti vel vid oss gjørt. Já, þegar vér med rólegri adgætslu skodum hann veg, um hvern hann hefir leidt oss, finnum vér yfrid stóra orsøk til rósemi og ánægju. Þegar vér skodum vort egid ásigkomulag, og minnumst þar hjá þess innilega kjærleika, sem Gud hefir audsýnt oss, fáum vér nóg efni til ad gledja oss af gjørvøllu hjarta. Gud géfur oss lucku og blessun til alls, sem vér tøkum oss fyrir hendur; hann géfur oss heilbrigdi, gladt sinni, krapt og lyst til ad erfida, hann snýr frá oss háskasemdum og ólucku tilfellum, útbýtir oss þvílikum lucku-kjørum, ad vér enga orsøk høfum til ad óska oss annara betri; hvad má oss uppørfa til gledi og ánægju, ef ecki þetta? og þad því heldur, þegar vér adgætum, hversu mikid Gud hefir oss gott gjørt framyfir marga adra af medbrædrum vorum; en þegar vér rennum nú augunum til þeirra sælufullu himinsins hýbýla, og íhugum þann yfirgnæfanda fognud, sem vér egum þar í vændum, hvad má þá af jardneskum heillum og lucku jafnast vid þvílika gledi vorr-

ar sálu? það er því undir vorum vilja komið, hvert vér lifa munum framvegis í lucku og rösemi edur ecki; séum vér miður ánægðir, þá er vantrú vors egin óstöðuga hjarta orsökin, sem ecki velur þau meðöl, er ebli vora sönnu ánægju. Skyldum vér þá vera misskunarlausir við sjálfa oss, og gjöra oss sjálfum lífið þúngt og mæðusamt, þar sem vér gætum adnotið annars betra? engannveginn? það skal æ gleðja og hughreysta oss, að vér egum Guð að, og að hann er vor trúfasti vinur og hjálpari í allri neyð; af hans mildiríku náðar-hendi viljum vér með þacklátu hjarta meðtaka þá ánægjufullu tíma, með hverjum hann gleður oss í þessu lífi, og hrynda burt allri sorg og qvíða, þanninn prísum vér Guð með vorri gleði og með vorri sinnis ánægju, en gjörum oss sjálfir lífið þægilegt og yndisfullt.

# 71. Hugvekja.

Gleðjið yður og fagnið, því að yðar verðkaup er mikið á himnum. Lúk. 6.

Að vísu má það undrum sæta, ef vér á engann hátt látum oss leiða til yfirbótar og sinnis umbreytíngar,

hversu margar og mikilvægar upp-
hvatníngar og ladanir, sem Gud þar
til frambýdur oss. Ordugleikinn, sem
vér meinum oss mæti í voru ydrunar-
verki, fær því þó aldrei valdid, því
Gud, en ecki vér, framqvæmir í oss
bædi viljann og verkid, en þar á mót
vekur máské íhugan stærdar og fjølda
synda vorra efasemi hjá oss. Sá
qvídi ætti frá oss burtu ad hversa, eda,
hvert mundi betra ad særast af vid-
varandi samvitsku ángist og ótta,
vegna drýgdra mótþróa synda og dag-
lega vakna upp vid þessa innvortis
qvøl, ellegar hafa góda samvitsku, sem
fridud og róleg er ordin med sannri
yfirbót? ellegar, hvad kann ad olla því,
ad vér erum svo tregir til ad snúa oss
af alvøru til Guds: máské syndir þær,
sem vér, til egin ólucku vorrar, alid
høfum í voru brjósti, séu oss svo géd-
þeckar, og oss falli ordugt ad hata þær
eins og óvini? en hversu lengi á þetta
hættulega tál, sem svo optlega hefir
oss blindad og stofnad til vorrar ó-
lucku, ad hafa yfirrád yfir vorum besta
ásetníngi, framar enn bestu og heilsu-
samlegustu áminníngar, vidvaranir
og upphvatníngar til egin lucku vorr-

ar? viljum vér þá einkis meta vors elskuríka Frelsara náð og ástsemi þá, með hverri hann á hérvistar dögum sínum tók svo ástúdlega að sér ydrandi syndara, og tekur enn með sömu elsku þeim á móti? viljum vér þá gjöra að engu með vorum mótþróa allt það ómak, alla þá umhyggju, sem vor góði Guð ber fyri því, að fá oss leidda til apturhvarfs, og þar með frelsa oss frá vorri egin fordjörfun? ó! að vér hugleiða vildum hverninn vér freisast mættum úr hættu þeirri, sem vér stofnum oss í! efalaust er það, að sá sami miskunsami Guð, sem lætur sér svo annt vera um að frelsa oss, og með sínum Anda verkar hið góða í vorum hjörtum, hann, sem útbreidir sinn náðar-fadm á móti oss allann daginn, að þessi sami Guð mun þó eins efalaust álíta oss fyrir sína óvini, ef hans náqvæma umhyggja fyrir oss verdur af oss forsmád og hanntnn að engu, ef að vér ecki viljum láta oss leida til apturhvarfs vid hans mildiríku náð; loksins gaungum vér þá sjálfrádir út í þá ólucku, sem vér keppumst eptir, og þá hlýtur straffid, sem vér sjálfir bökudum oss, að verda því miklu þyngra.

Í þeim sama himni, sem gledi er yfir sérhverjum syndugum, sem ydrun gjörir, eru hinna nøfn, sem áfram ana í syndunum, vidurstygd fyrir Gudi, Englunum og hans heiløgu, því med syndum og ydrunarleysi styggja menn Gud og hrella hans gódu Anda; og hvert vildi sá ad lok-unum flýa, fyrir hvern eckért athvarf edur hæli var lengur á jørdunni? Þeg-ar ydrunarlaus sála med ótta og áng-ist hlýtur loks ad skilja vid þetta jard-neska, og himininn, inn í hvern eckért óhreint eda almennilegt, eckért, sem elskad hefir ógudlegleika og lýgi, koma kann, er henni apturluktur, hverr verd-ur þá hennar samastadur, hvílík henn-ar kjør, ønnur enn eilíft spott og van-virda og hrelling? vegna egin velferd-ar vorrar, skal vor einlægasti áſetn-íngur sá, á medan vér enn þá høfum tíma til yfirbótar, ad leita af alvøru nádar hjá Gudi og láta oss leida af hans kjærleiksfullu vidvørunum, til ad forda oss háska þeim, sem hinum ó-hlutvøndu búinn er, sem uppegna sér á móti Guds réttlætis reidi; því hvernig fengjum vér afborid hana? Ó Gud! virdstú ad leida oss á þeim

vegum, um eydimørk þessa lífs, sem leida til þíns sælufulla himins; vertu æ vor leidtogi í lífinu, svo ad vér, fyrir þína nádarríku adstod, ad lokunum lenda fáum í þeim farsældar heimkynnum, hvar útvaldir gledjast af þeim sælufullu verdlaunum, sem þar eru fyrirbúin þeim, er þig elska. O Herra Jesú! leid þú oss jafnan med ordi þínu og anda til þessarar farsældar! ó Jesú! gef oss þann sóma!

# 72. Hugvekja.

Þú, hinn mikli og voldugi Gud! Drottinn Zebaoth er þitt nafn, þú ert mikill í rádum og máttugur í athøfnum. Jer. 32.

Hared vér erum svo óframmsýnir til ad sjá víslega fyrir høgum vorum, en kraptar vorir reynast svo veikir til ad efla vora lukku, er þad ecki lítilvæg huggun fyrir oss, ad Gud, undir hvers stjórnun vér støndum og í hvers valdi er ad bæta allar vorar þarfir, er svo mikill í rádum og máttugur í athøfnum. Vér vitum ecki hvad oss mæta mun á næsta degi, jafnvel ecki á næsta tíma; en hann, sem nidurradad hefir og áqvardad fyrirfram sérhverrar manneskju tilfelli,

og fyrirhugad þeirra luckukjør, hann sjer ecki einúngis fyrir, hvad á nærsta tíma og morgundegi mun adbera, heldur er einnig augljóst og nakid fyrir hans alskygna auga, allt sem í voru gjørvalla lísi mun oss mæta; og svo rádþrota, sem vér einatt verdum, þegar vér viljum forsjállega sjá fyrir luckuvorri, svo kraptug eru hans rád, sem hjálpa oss eins opt í vandrædum þeim, sem abla oss áhyggju og ángistar qvída. Þar ed vér erum nú svo fullkomlega sannfærdir hér um, því erum vér þa svo fásinna, ad láta vort blindada hugskot og hjartans tilhnegíngar ráda vorum fyrirtækjum? því felum vér þá ecki allt vort rád og áform á vald Guds óendanlegu speki og stjórnun, þar ed ályktanir hans ráds einar eru vísar og sáluhjálplegar fyrir oss; ef ad vér ætíd breyttum þannig og vendum oss á, ad vera ánægdir med þessa Fødurs vors vísa og náduga vilja, mundum vér sídur orsøk hafa til ad ángrast eptirá yfir vorum fyrirtækjum. Ovídalausir mundum vér renna augunum fram til hinna ókomnu tímanna, ef vér med gaumgæfni íhugudum, ad sá Gud, sem áqvardad hefir

oss til handa allt þad, sem framkoma mun á komandi tímanum, er mikill í rádum og máttugur í athofnum. Þessi fullvíssa leidi oss frá þeirri fásinnu, ad trúa betur vanvitsku vorri enn Guds óendanlega vísdómi; frá því, ad treysta framar vanmætti voru enn almætti hans, sem øllu megnar. Ótolulegar rokksemdir sannfæra oss um þad, hverßu vís, hve máttugur, hve gædskuríkur Gud er, sem vidheldur lífi voru. Aldrei skal fávitska vor gjøra lítid úr vísdómi hans, né treysta vanmegni voru jafnt og hans almætti; med verdskuldudu þacklæti skulum vér vidurkénna hans gódgirni; fyrir Guds alvíssa augliti, viljum vér lítillæcka oss og géfa honum dýrdina fyrir allt þad góda, sem hann audsýnir oss. Þegar vér þannig førum ad rádi voru, vogum vér ad vænta oss blessunar Guds og lífsins ánægju og farsældar. Ó Gud! géf þú oss þessa luckuog kénn oss æ betur og betur ad þeckja vanmætti vort og fáfrædi. Láttu oss aldrei dirfast ad framkoma fyrir þitt alsjáanda auga med drambsømu og stærilátu hjarta, sem í nockru stóli uppá sig, heldur þeckja og vidurkénna,

ad vér æ séum veikar og hjálparlausar sképnur, sem í øllu komnar erum uppá þína miskun og náð. Hvergi, nema frá þér, voldugi Gud! væntum vér adstodar og hjálpar, þegar oss liggur á, en þegar vér þannig felum oss á þitt vald med audmýktarfullu og einlægu hjarta, láttu oss þá ætíd finna hjá þér ráð og krapt. Audsýn þig gjørvallri kristni þinni, sem hennar trúfasta rádgjafa og hjálparmann, og frelsadu øll þín børn af þeim vandrædum, sem nú eda hédan af kynnu ad mæta þeim. Gjør ad engu ráda-brugg hinna ógudlegu, en heyrdu óskir rádvandra; þegar vér erum efablandnir og rádþrota í voru áformi og fyrirtækjum, géf oss þá vísdóm til ad þeckja og velja þad besta, og krapta til ad framqvæma þad. Lát oss í øllu, sem vér gjørum, tølum eda hugsum, hafa þinn vilja oss fyrir augum og breyta eptir honum í øllu; þitt undarlega og dýrdlega ráð, leidi oss farsællega í gégnum alla mædu þessa lífs og mótlætingar, og ad lokunum inn í annars betra heims vistarveru, hvar vér med gledisaungum dýrkum þig og syngjum: mikli og sterki Gud! Drottinn Zebaoth er þitt nafn, þú ert

mikill í ráðum og mektugur í atböfnum!

## 73. Hugvekja.

Það port er þraungt og sá vegur er mjór, sem til lífsins leiðir, og þeir eru fáir, sem rata hann. Matth. 7.

Ecki verður því neitað, að mörg er mæðan og margfaldur örðugleikinn, sem oss mætir á fyrisettum vegi í gégnum heim þenna til himinsins. Vegurinn, sem vér gánga skulum er yfrið mjór og portið þraungt, sem vér egum um að fara; en — hversu örðug og mæðusöm, sem gánga þessi mætti finnast oss, er það þó skylda vor að velja þenna veginn, en ecki láta þær þrautir, sem á honum kynnu mæta, fæla oss af honum. Það er að sönnu satt, væru þessar þrautir óyfirvinnanlegar og ef vér búast hlytum við óteljandi þjáníngum og endalausu mótlæti, mætti það verða örvílnunar efni fyrir oss, en vér höfum, eptir nærverandi ástandi voru, nóg meðöl í höndum til þess, að vegurinn verði oss greiðfarnari, stríðið geðfeldara, sem vér á honum heia hljótum, og heillafull von þess, er viðtekur, þegar

veginn þrýtur, gjörir allt léttbærara. Satt er það, að vegur þessi er mjög ógreiður, en endir vegarins, ef vér til hans lítum, er því vegsamlegri. Ýblugir eru óvinir þeir, sem vér egum hér við að stríða, en hinn, sem með oss er, er lángtum øblugri; veikir eru vorir kraptar, en Jesú máttur yfirgnæfir vort vanmegni. Hafeð vér høfum nú þvílíka upphvatníngu og hugar-styrkíngu, væri það eckert affsökunar-mál fyrir oss, að klaga yfir kristinndómsins ørðugleika; vér viljum því á oss taka þetta heilnæma ok og bera þessa léttu byrði. Allra Jesú sonnu stríðsmanna dæmi skulu hér til upphvetja oss; þeir hafa margir mátt reyna alla þá mæðu, sem kristinndómurinn olla kann, og þegar vér samanberum vorar léttu þjáníngar við þrautir þær, sem þeir líða hlutu, hversu lítið eru þá ecki vorar að reikna á móti þeirra; hverki píslir né píntíngar høfum vér liðið fyrir Jesú sakir; hverki høfum vér hans vegna þurft að afneita ríkdómi, metorðum né velgengni; en allt þetta og þaðan af meira hlutu þeir fyrstu evangelií játendur að líða, skyldum vér þá ecki þola vilja litla mæðu eða stutt og

léttbært stríd, já, hvad enn þá er meira, hlaut ecki Jesús siálfur ad þola svo mikid, ádur enn hann inngánga fèck í sína dýrd? allt frá fædíngu hans til daudans, var hans líf fullt mædu, fullt erfidis og sorgar; ættum vèr þá ecki ad vilja líkjast honum einnig í þessu? fiærri sé þad oss, ad skora oss undan, ad bergja á líkum kaleik og hann! vèr höfum nú fyrir augsýn Guds tekid fyrir oss þann ásetníng ad umbera allann ördugleika, sem kristid líferni útheimta kann, ad krossfesta vort hold med þess girndum og lystíngum í öllu, ad eptirfylgja Jesú án möglunar, og fúsir ad taka heim mótlætíngum, sem hann vill á oss leggja; ecki skal neitt bágt eda óþægilegt á vorri Pílagríms reisu hræda oss frá, ad framgánga á þeim vegi, sem oss er fyrisettur; nóga endurnæríngu munum vèr finna, þegar vèr med rádvendni kostum kapps um, ad vardveita skyldur vorar; vèr felum oss því á hendur þinni styrkjandi og helgandi náд, miskunsami Gud! án hverrar vort áform mun ad engu verda; efl þú oss í strídinu vid syndina, ad vèr ecki látum oss locka af dæmum og adferd hinna ógudlegu;

géf oss þann vísdóm, ad vér ecki lát-
um oss ginna af lastanna útvortis
skini né vellystínganna tillockunum.
Hjálpa oss ad gánga hugudum fram á
gudhrædslunnar vegi og loksins ná því
takmarki, sem endar alla vora mædu,
umbunar alla vora fyrirhøfn. Hversu
rósamir munum vér þá ecki renna aug-
unum til ens umlidna og skoda allann
þann ørdugleika, sem vér høfum yfir-
unnid! hversu krøptuglega munum vér
þá ecki sannfærast þar um, ad mjói
stígurinn, sem vér framgaungum á,
var sá besti og beinasti fyrir oss til ens
eilífa lífs! hversu ástúdlega munum
vér þá ecki þacka þér, ad þú leiddir oss
um hann til vorrar eilífu farsældar!

## 74. Hugvekja.

Hverr er eg?

Þad er sú spurníng, sem vér, hver í
sinn stad, daglega gjøra ættum
sjálfum oss; því hverr, sem aldrei
gaumgæfir sitt ástand, eda hvert hann
taki framførum nockrum á dygdanna
vegi ellegar forherdist í løstum, er
nærsta ílla farinn; en ef vér stíngum
nú hendinni í vorn eginn barm og
rennum þaunkunum til sjálfra vor

má efalaust margur af oss játa: ad allt til þessa dags, høfum vér aldrei med réttri eptirtekt íhugad þetta efni eda sønnu svarad uppá spúrníngu þessa, vér høfum svo lengi eydt lífstundum vorum í heiminum, án þess ad hafa lagt alúd nockra á, ad lifa samqvæmt vorri áqvørdun, Guds ordi og skynseminni. Látum þad nú nóg vera, ad vér híngad til evdt høfum svo mørgum stundum í þvílíkri vanvitsku, rétt eins og draumi; þessa stund skulum vér nota til ad yfirvega med athygli tilveru vora, hvad vér séum eg til hvers skapadir. Af sjálfum oss urdum vér ecki til, Guds almætti mindadi oss í upphafi og gaf oss þá veru, sem vér høfum. Frá honum komu allir þeir fullkomlegleikar, er sálu vorri og líkhama veittust, en í hans valdi er ad taka þá aptur, þegar hann vill. Vor líkhami er af jørdu mindadur, af jørdunni næríst hann, en verdur loks rotnadur ad jørdu aptur. Nem því hér um augnablik stadar, kristni madur! hugleid, hvert þú hafir orsok til ad stæra þig af líkhama útliti þínu, ellegar upphrokast yfir adra. Sú smeckbetri fæda, sem þú máské nýtur

og þau ſtátzlegri klædi, ſem þú máſké bera kannt framyfir adra, gjøra þig engu dýrmætari enn þú í raun réttri ert; vér erum allir áþeckir því, ſem ver daglega undir fótum trodum, dupt af dupti og jørd af jørdu, en vér erum þar ad auki andi, og þó þeim óendanlega anda, hvers líkíng vér vera áttum, nærſta ólíkir ordnir; ýfrid lítid hefir ſkynſemi vor til ad bera af vísdómi þeim, ſem honum var í øndverdu meddeildur; viljinn hefir heldur eckert eptir af ſakleyſi því og heilagleika, ſem hann var prýddur med, og tilhnegíngarnar gánga hjá oſs ſvo ſreft út yfir tilhlýdileg takmørk, ad þar vid eydiſt ſálarinnar róſemi. Sá alvaldi Yfirherra, ſem ſkapadi manneſkjurnar, ſetti oſs til þeſs í heiminn, ad framqvæma ſkyldum þad verk, er hann áqvardad hafdi ſérhverjum af oſs; en þetta fyriſetta verk verdur, því midur! af oſmørgum forſómad, eda ad minnſta koſti gjørt verr enn vera ætti. Þad mun lokſins ſérhverr af oſs ſanna mega, þegar ad reikníngsſkapar tímanum kémur, en Herrann á óvæntri ſtundu kallar oſs burtu hédan, og ſá alvíſi Dómari útbýtir einum og ſér-

hverjum umbun eda straffi eptir því, sem einn og sérhverr, á medan hann lifdi hér í heimi, hafdi tilunnid; þá mun þad ad lokunum auglýsast, ad vér engannveginn gjørdum þad, sem oss bar. Svo óróssama, sem þessar hugleidíngar mættu nú gjøra oss, svo rólega og fridstillta gjørir oss aptur sú yfirvegan, ad vér séum kristnir, sem egum von á ad verda ecki dæmdir eptir strángasta rétti, fyrst vér af Jesú erum endurleystir, sem ecki einúngis bætti fyrir vorn ófullkomlegleika og afbrot vor, heldur útvegadi oss hylli Guds og rétt til ad heita hans børn, sem mega gledja sig hér í tímanum vid þá sælu von, ad ødlast á sídan hlutdeild í eilífri farsæld, þegar vér ástundum ad lifa hér, sem kristnir. Veri þar fyrir sú alvarlegasta ástundan vor ad lifa svo, sem kristnum sómir, efla Guds dýrd og farsæld vorra medbrædra, undir eins og vora egin, ad svo miklu leiti oss er mögulegt. Med þvílíkum lífernis- og þenkíngarhætti mun sérhverr af oss efalaust smacka þá lífs heill og ánægju, sem hann aldrei ádur þeckti. Med rósamri gledi skiljum vér þá vid lífid, þegar daudinn

kallar, því samvitskan ber oss þá vitni, að vér af alvöru hösum lagt stund á að framqvæma í lífinu vort fyrisetta verk, en Guðs Andi mun þá sálina gleðja með von dýrmætustu umbuna. Í blessaðri endurminníngu verður þá vort nafn og minníng á jörðunni, en vor fögnuður í eilífðinni óútmálanlegri enn nockrum hér hafði í huga komið.

# 75. Hugvekja.

Dragðú ecki undan að snúa þér til Drottins, slá því ecki á frest frá einum degi til annars, því reiði Drottins mun hastarlega koma og yfirfalla þig á hefndarinnar degi. Sýr. 5.

Í engu efni er undandráttur hættulegri enn í voru yðrunar-verki; margföld hösum vér dæmi hast, sem sannfæra um það og eilífðin mun á síðan sýna oss enn fleiri óttaleg þeirra, sem burtryktust áður enn byrja vildu yfirbót, þareð þeir táldrógu sjálfa sig, að þeir ennþá mundu fyri höndum eiga lánga lífdaga, en náðu þó ecki þeim tíma, sem brúka skyldi til betrunar; sjáum vér þá ecki í huganum vora ímind á þessum óluckulegu? Því er miður! vér megum viðurkénna: að vér híngað til hösum verið allteins hyrðulausir um

vora yfirbót. Guds lánglundar-gédi megum vér þacka, ad oss þegar ecki er burtu kippt midt í voru andvaraleysa og dofna ástandi. Vér sjáum þá háskasemd, sem vér stofnum oss í, med því ad draga undan vora yfirbót. Vidurkénna megum vér fásinnu vora í því, ad gjøra oss vissa von um ár og daga, þar sem vér varla megum reida oss uppá ad lifa næsta augnablik. Vid svo margar uppþvatníngar til ydrunar, hugsudum vér ósjaldan líkt Felix: í annad sinn, þegar eg fæ tóm, vil eg snúa mér; en af hvørju vitum vér, ad oss í annad sinn muni betur farnast? festa ecki lestirnir þess meiri rætur, því lengur, sem þeir æfdir eru? forherdumst vér ecki æ meir og meir vid syndsamlegann vana í løstunum, og verdum um leid því meir frábitnir því góda, og hverr hefir sagt oss, ad vér lifad fáum þann tíma, ad vér tekid fáum sinna skipti? mun ecki daudinn géta ryckt oss óvørum í einu vetfángi burtu? máské og ádur enn nockurr sjúkdómur bodi hans nálægd? hvad fullvissar oss um, ad Gud enn vilji láta oss heyra sína nádar-rødd, hvørja vér svo opt høfum forsmád? og hvernig megum vér vænta þess, ad heilagur

Andi enn þá hér eptir vilji klappa á dyr vors hjarta, eptir þad vér svo þráfaldlega høfum neytad honum inngaungu? nei, aldrei skulum vér framar vera svo fásinna, ad treysta á svo óvíst; þetta augnablik, um hvert vér med vissu sagt getum: ad þad sé vort, skulum vér endurkaupa; á qvøldstundu þessari viljum vér nú heyra þá røddu vors Guds, sem kallar oss til apturhvarfs; hverr veit, nema vér í nótt eda med morgundeginum fáum þá skélfandi røddu ad heyra; manneskja! þú skalt deya og ecki lifa! æ! látum oss þá álíta oss svo sem þegar deyandi, er vænta megum daudans á hverri stundu og þad nú framqvæma, sem vér vildum láta oss hugfastast, þegar vér á banasænginni liggjum fyrir daudanum; látum oss audmýkja oss fyrir Gudi undir eins og vér vogum ad tileinka oss Jesú réttlæti, sem í daudanum verda skal vor einka huggun og styrkur! látum oss fela vora sálu þeim Gudi á vald í hvers høndum vér óskum henni ad hvíla þegar hún skilst vid líkhamann! látum oss strída á móti þeim girndum, sem gjora mundu oss samvitskunnar áklaganir þúngbærar í helsóttinni, ef vér létum

sigrast af þeim. O Guð! þú, sem nú vekur þessa þánka í hjarta voru, þú, sem nú minnir oss á þessa svo nauðsynlegu forsjálni, gefðu oss krapta og stöðuglyndi til að framqvæma þetta, sem vér ásetjum nú; kénn oss að endurkaupa tíðina og ætíð minnast þess, hversu dýrmætt, en þar hjá fallvalt og ódfluga vort líf er, svo vér verða mættum eilíflega sáluhólpnir.

## 76. Hugvekja.

Gángið í elskunni eins og Jesús Kristur hefur oss elskað og sig sjálfann útgefið fyrir oss, til fórnfæríngar og offurs Guði. Eph. 5.

Ef vér hugleiða vildum, hversu ómrædileg sú elska var, með hverri Jesús Guðs eingétinn Sonur elskaði oss syndugа menn, þá mundum vér finna það, að um ekkért ætti oss fremur annt að vera, enn að hjá oss mætti aptur á mót vekjast sá heitasti og hreinasti kjærleiki til hans, því heldur, sem það er ecki einúngis vor skylda, að elska vorn Jesúm af gjörvöllu hjarta, heldur er líka vor sanna lucka undir því komin, bæði um tíma og eilífð, að vér lifum og deyum í elskunni til Jesú. Hversu

mikid ér þad ecki, sem Jesús, bædi med sínu lífi og dauda, hefir fyrir oss gjørt, svo ad vér skyldum elska hann? eda, hvad gétum vér ímindad oss, ad hann frekar gjøra mætti fyrir vorar sakir, heldur enn hann gjørt hefir til þess, ad lada til sín vora hjartans ást? gat hann lidid meira enn hann smánarlegasta og qvalafyllsta dauda, til þess ad afreka oss eilífa sáluhjálp? hverja órækari sannfæríngu mátti hann géfa oss um þad, hversu heitt hann oss elskadi, heldur enn þá, ad hann, oss til góda, tók á sig forsmán í stad sinnar eilífu dýrdar; eymd og volædi, í stad guddómlegrar sælu, ørbyrgd fyrir ríkdóm, dauda fyrir líf? hversu hardt, grimmt og tilfinníngarlaust er þá ecki þess hjarta, sem ecki vill elska þenna vorn Jesúm aptur á móti fyrir þvílíkann kjærleika! ó! vor elskuríki Jesú! styrk oss sjálfur í elskunni til þín, ad hún mætti verda svo sterk, ad enginn hlutur megni ad skilja oss vid þinn kjærleika. Ó! vér hljótum, vér viljum elska þig, svo ad bædi líf vort og daudi vitni um vorn kjærleika til þín, þér viljum vér lifa, ó Jesú! án þess ad elska þig, er alls enga sanna ánægju ad finna

í þessu lífi; hvergi er oss audid huggun edur hæli ad fá í þreyngíngum, mædu og mótlæti þessa lífs, ef ad oss ecki audnast ad vera í náð hjá þér, og vita oss undir þinni mildiríku stjórnun. Sannfær oss æ betur og betur um þá sælu, sem sérhverr þinn trúr þjón og barn á í vændum. Þegar vort hjarta vill leida oss afvega til ad hlýdnast heimsins tælandi girndum, lát oss þá hugleida, hversu viljugur þú hafir synjad sjálfum þér jardneskrar gledi og þar med skuldbundid oss til ad afneita heiminum en eptirfylgja þér. Ef vér rötum í þá villu og ólucku ad lifa í syndunum, minntú oss þá á píníngar þær, sem syndir vorar bökudu þér, svo þarvid leidast mættum til ad fordast syndina. Ef ad vér teljumst undan ad bera þann litla mótlætis skérf, sem þú hefir oss útmælt, set oss þá kroptuglega fyrir sjónir þá pínu og sjálfs afneitun, þann kross og dauda, sem þú undirgéckst fyrir vorar sakir; þinn kærleiki uppfylli allt vort hjarta, stjórni voru líferní og veri loksins vor huggun í daudanum; því hverr daudbagi er sáluhjálplegri enn sá, þegar oss audnast mætti ad deya í þínum

kjærleika? ó Jesú! Í honum og þinni sameiníngu finnum vér óumræðilegann sætleika, sem lángt yfirgengur allann dauðans biturleika. Það skal þar fyrir vera vor staðfasti ásetníngur svo að lifa, að vér deyandi mættum vera þínir; vér viljum því slíta oss frá øllu, sem taka má vort hjarta til fánga. Mátalausa elsku til ens jarðneska viljum vér úr hjartanu uppræta, en ekkért nema þig, krossfesti og upp aptur risni Jesú! af gjørvallri sálu elska; eins þá, er vér í dauðanum ekki fáum lengur þenkt um nockurn hlut, skulu þó allar vorar hugrenníngar hjá þér síðast staðar nema, en þá vér gaungum út frá heimi þessum með þeirri huggun, að vér deyum í þér, munum vér efalaust inngánga í betra heim, með þeirri øruggu von að mega eilíflega með þér lifa. Ó! hvílíkur þánki er þetta: eilíflega að lifa þér, Herra Jesú! Hér í heimi fáum vér øldúngis ekki skilið, hversu mikils þetta er verdt, en þegar vér innfluttir erum í vort eptirþreyða føðurland, munum vér að fullu reyna og skilja, hversu sæl sú sála er, sem lifir þér.

77. Hug-

# 77. Hugvekja.

Náð sé með øllum þeim, sem elska Drottinn vorn Jesúm Krist einlæglega. Eph.. 6.

Yfirvega þú, sála mín! með gaumgæfni og undrun kjærleika Frelsara þíns. Gacktú til Bethlehem, skodadú hann, sem er ljómi Guðs dýrdar, í þénara mind, í eymdum og þreyngíngum. Fylgdú honum fet fyri fet í gégnum hans lærdómsríka líf hér á jørdunni. Sjádú hans gódgjarna kjærleika, med hverjum hann læknadi sjúka, styrkti veika, hughreysti auma og tók syndara til nádar. Sjádu hvernig hann, sem þó auglýsti svo mikinn mannkjærleika, var af mønnum ofsóktur, smádur, hæddur og, svo saklaust og heilagt hans framferdi var, þó qvalinn og píndur. Gack þú á eptir honum inní Gethsemane aldingard og horfdú á strídid, er hann þar hlaut ad útstanda, sjádú erfidid, sem hann þoldi, sjádú tárin, sem hann feldi, teldú andvørpin, sem hann stundi fram, skodadú blódsveitann, sem hann úthellti, yfirvegadú þá bæn, sem hann þar gjørdi til síns himneska Fødurs og hugleiddú med háleitri undrun þá

hlýdni, med hverri hann leggur sig undir vilja síns Födurs. Haldtú enn áfram og far med honum uppá fjallid Golgatha, stattú kyrr þar, á skodunar plátsi alls þess mesta, er guddómurinn nockurntíma gjört hefir og sjádú þad undrunarverdasta, sem kjærleiki nockurntíma hefir framqvæmt, sjádú þenna Jesú, síns Födurs sonnu ímind, sjádú hvar hann héck nakinn á trénu, á medal tveggja mordíngja, í gégnumstúnginn med nöglum og af bödlum umkríngdann; en — sjádú, hvernig hann styrkist af elskunni í svo mörgum pínslum, hvernig elskan þrýsti honum til ad leggja sig undir þessar qvalir og hrærdi hann til ad umbera þær þolinmódlega. Sjádú hvernig hann tæmdi qvalanna bitrasta kaleik, og var eins fús ad deya fyri sína óvini, og fyrir þá ad taka á sig manndóm. Hvernig er þad mögulegt, ad þú, sála mín! hrærist ecki vid sjón þessa? hvernig er þad mögulegt þér falli þad ördugt, ad taka hann ajetníng fyrir þig, ad elska þinn Jesúm aptur á móti, þegar þú hugleidir þvílíkann kjærleika, og þad er þó allt, sem þinn píndi Velgjörari krefur af þér, ad þú aptur á mót elskir sig.

En hverr kjærleiki gétur orðið nógu sterkur, nógu brennandi til þess, að þú með honum fáir endurgoldið það óútmálanlega góða, sem hann hefir gjört þér? að sönnu er það þér ekki mögulegt, að elska hann eins heitt, og hann hefir þig elskað, en hann krefur einúngis af þér einlægann kjærleika, jafnvel þó hann veikur sé. Kom þá, sála mín! og offra honum allri þinni eptirlaungun, allri þinni von og öllum þínum óskum! að elska hann æ meir og meir með sífeldt vaxandi öruggu trausti, að trúa á hann, og með einlægu, ráðvöndu og auðsveipnu hjartalagi, að leggja þig æ viljugri og viljugri á hans vald, þetta skal vera þín inniileg ósk, sem þú leitist við að uppfylla. Syndu því í daglegu framferði þínu verkanir þess kjærleika, sem þú ber til Lausnara þíns. Hugsaðu opt um það, hversu heit sú elska var, er hann til þín bar; spyr sjálfa þig: hvert eitt eður annað fyritæki, sem þú áformar, ellegar synd er þér kémur í hug að drýgja, standast mégi með kjærleika þeim, er þú ert þínum Frelsara skyldug að sýna? gleym því aldrei, að öll sú lucka og blessan, sem þú nýtur á

sérhverjum degi þíns lífs, helgast af því dýrmæta offri, sem þinn Endurlausnari frambar þann dag, er hann fyrir þig píndur var. Þetta uppveki og þrýsti þér til á sérhverju augnabliki þíns lífs, að renna augunum til Jesú kjærleika og með þakklæti minnast hans pínu og dauða.

# 78. Hugvekja.

Allt mitt ráð til Guðs eg set, á mér sinn vilja verða lét, mér bið eg hans miskun hlífi, heilsa, vit, líf, sál, heiður, fé, hans vernd jafnan befalað sé, nú og í eilífu lífi.

Á meðan vér erum á vegferðar reisunni, sem oss er áqvørðuð í gegnum líf þetta, er vissulega engin lucka meiri enn sú, að vera þess fullviss, að vér sífeldt framgaungum undir umsjón og náqvæmri varatekt þess Guðs, sem er óendanlega máttugur og miskunsamur; það skal því vera vor eilíf gleði, að halda oss til hans og setja á hann vort gjørvallt trúnaðar-traust; eða því skyldum vér hata svo egin velferð vora, að treysta á sképnurnar, sem eru eins vanmáttugar og vanvita og vér sjálfir erum? nei, Drottinn er vor Frelsari, hann er vor leiðtogi, hann er

vor verndari; hans óendanlegi vísdómur sjer og þeckir allar þær háskasemdir, sem lífi voru eru búnar, hans almætti getur verndad oss í allri neyd og serhverri jafnvel mestu hættu. Gædska hans er sífeldt reidubúin til adstodar, og synjar oss aldrei hjálpar í nockurri neyd. Þetta høfum vér sjálfir svo margopt reynt a vorum umlidnu lífsstundum; þegar enginn madur né nockur mannleg hjálp gat oss minnstu bjørg veitt, var hans hjálp oss nálæg, og þegar enginn heyrdi þær sáru klaganir, sem vér í einrúmi leynilega frambárum af sorgbitnu hjarta, stód hans miskunar-eyra opid fyrir vorum qveinstøfum, hann taldi vor tár, heyrdi vora grátbeidni; og því skyldum vér þá ecki trúa á hann, og vona til hans miskunar á vorum ókomnu æfi-døgum? sífeldt á medan vér lifum í heimi þessum, erum vér umkríngdir af háskasemdum, og hverr veit hvad oss í nótt eda á næsta degi mæta muni. Vér viljum engu qvída, en áhenda oss á vald vors Guds vísu og almáttugu forsjónar, hann mun fyrisjá hættu þá, sem yfirvofir, og útryckja oss af neydinni med sínum vold-

uga armi. Í vanvitsku vorri er vor huggun sú, ad Gud sjálfur er vor Fræd-ari, sem kennir oss þann mikilvægasta lærdóm, sem er: ad óttast hann. Miskunarríki Gud! vér felum vort hjarta þér á vald, gjör þad sjálfum þér þóknanlegt, upplýs vorn skilníng, helga vorn vilja og vardveit vora gjörvalla sálu óstraffanlega til þíns opinberunar-dags! en vér veik og hrasandi börn þín sjáum svo marga afvegu fyrir oss, sem leida kunna oss frá þér, margar villi-götur, á hvörjar vér ráfa kunnum af réttum vegi; kenn oss því ad þeckja alla afvegu, allar tálsnörur, sem gjöra kunna oss ó-luckulega, og vardveittu vora fótstigu, ad vér ecki hrösum; kom vorum veikleika til hjálpar og vidhaldtú oss á þeim sáluhjálplega vegi, sem leidir til himinsins. Vitt auga, ó Gud allrar gædsku! líti í nád nidur til vor aumra á þessari stundu; þú hefir leidt oss inn í heim þenna, þín náduga forsjón leidi oss því á réttum vegi um heiminn. Snú ecki augliti þínu frá oss, þegar vér bidjum þig, en gef oss, fyrir vors Frelsara Jesú sakir, allt þad, sem þú sjer oss nytsamlegt; jafnvel mótlætíngum viljum vér gladir vel taka frá þinni hendi.

Styrk oss med þinni hjálp og gled vort hjarta med þinni huggun. Þinni nádugu stjórnun felum vér á hendur, ó vor Gud! vort gjørvalla líf; yfirgéf dú oss ecki og tak ecki þína nádar-hønd frá oss, vor Gud og vor heilsugjafari! Amen!

# 79. Hugvekja.

Ecki ad eg hafi þad þegar høndlad, edur sé þegar fullkominn, eg stunda þar eptir, hvert ad eg gæti þad einnig høndlad, eins og eg er af Kristi høndladur. Phil. 3.

Þegar vér, eptir erfidi daganna hvílumst á nóttunni og njótum svefnsins endurnæríngar, erum vér eins og daudir án tilfinníngar og adgætslu þeirra háskasemda sem þá audveldlega kynnu nálægjast og yfirfalla oss. Þetta ástand vort er nærsta sorgleg afmálan þess tilfinningar- og adgjørda-leysis, í hverju sála vor eydir tíd sinni. Tilfinníngarlausir erum vér vid svo marga velgjørnínga, sem vor gódi Gud lætur oss njóta, svo ad hverki hans typtanir né bendíngar fá oss vakid af vorum andvaraleysis svefni; dofnir erum vér til ad gjøra þad góda, og afskiptalausir um þær háskasemdir og hindranir, sem tálma oss í gudhrædslunnar og dygd-

anna framförum. Vér gaungum fram líkt og hálfsofandi og í draumi, umhyggjulausir fyrir því sem oss mæta kann, án þess vér adgætum, hvad um vorrar ódaudlegu sálar velferd lída muni. Í þvílíku ástandi hefir máské margur af oss nú lengi lifad æfi sinnar, og þannig, svo ad segja, sofid mörg ár burt. Mál er því fyrir oss ordid ad vakna loksins af þessum hættulega værdar dúr, og láta Guds ord og skynsemi vora leida oss til ad gégna þessum gudlegu upphvatníngum, til adgætslu velferdar vorrar. Láttú því, sála mín! Guds röddu, sem til þín talar í hjarta þínu, hafa þá verkun, ad þú ecki einúngis heyrir, heldur og framfylgir þeim hræríngum, er þú finnur Guds Anda hjá þér verka. Vaknadú því ecki ad eins um stund, heldur varast þú ad falla aptur í sama andvaraleysis svefn; lattú þér nægja, ad þú híngad til hefir sofid burt þín bestu ár. Vertú nú árvökur, og tak vara á sérhverri skyldu þeirri, sem Gud af þér krefur. Svo opt hefir Gud ad undanförnu til þín hrópad: vakna þú, sem sefur, og rís upp af dauda! heyr nú á þessari stundu þessa röddu, sem krefur af þér, ad géfa gætur ad þinni velferd. Gættú ad,

hversu margar háskasemdir þig umkríngja, í hverjar leti þín og svefn kann auðveldlega að varpa þér. Sérhverr dagur þinnar æfi, sérhverr tími þíns lífs, bjóða þér út í nýa orustu; vak því og stríð, svo þú missir ecki þá kórónu, sem þér er heitin að strídslokunum eptir unnin sigur; eða meinar þú ecki, að endurminníng þinna, í andvaraleysis svefni, eyddu lífsstunda, muni loksins sárlega qvelja þig, ef þú lætur þig ecki vekja, áður enn síðasti dauða svefn aptur lykur þín augu? hugsa æ til þessa á hverju qvøldi áður enn útaf sofnar, og lát þá tilhugsun þrýsta þér til að bera umhyggju fyrir þinni eilífu velferð, áður enn þú lykur þínum augum. En hvernig fáum vér þessu orkað, nema þú, vor Guð! hjálpir og styrkir oss? eins og vor líkhami á morgnana verður að njóta þín að til að fá borið sig og viðhaldist á hverjum degi, allteins og ecki miður þarf sála vor þinnar hjálpar, bæði til að uppvakna af syndanna svefni og líka til að haldast sífellt vakandi. Æ! miskuna þig því yfir oss, miskunarríki Guð! þú þeckir og sjer hversu daufir, latir, kaldsinna og duglausir vér erum til alls góðs. Upplífga því með

þínum Anda vort hjarta og upphvet vora sálu til að brúka forsjállega sérhvern þann tíma, sem þú unnir oss. Gjör oss aðgætna um háskasemdir þær, sem sálu vorri eru búnar og eptirtektasama um miskun þína við oss, fúsa til að gjöra hið góða og ábyggjusama að forsóma engin þau tækifæri, sem þú gefur oss til að taka vara á frelsi vorrar sálar. Leiði þá, ó vor góði Faðir! sálu vora til yfirbótar, þitt orð, þínir velgjörníngar, þínar typtanir, þín þolinmæði og þín vægð við oss! aldrei viljum vér héðanaf stríða gégn þvílíkum upphvatníngum, aldrei héðanaf láta þína náð til forgéfins við oss framkoma. En ef að vér skyldum rata í þá ógæfu, að andvaraleysi og syndanna svefn sígi að oss á ný, veki oss þá af honum þín náðar raust, svo vér ekki út af sofnum til ens eilífa dauða, heldur öðlast mættum það eilífa líf, sem er þín náðargjöf fyrir Jesúm Krist vorn Endurlausnara. Amen!

## 80. Hugvekja.

Þegar þú kallar, mun Drottinn svara þér, þegar þú hrópar, mun hann segja: sjá! hér em eg. Esa. 58.

Vér værum vissulega hinir óþakklátustu af öllum skepnum Guðs, ef

vér framar þjóna vildum syndinni, þar ed Jesús er fyrir hana dáinn; med þessháttar adferd forsmádum vér Guds nád, afneitudum Gudi og vanvirdtum vorn Frelsara, já, vér egndum þar med á ný yfir oss Guds straungu reidi. Eiliflega skal lángt frá oss þvílíkt óþakklæti, þvílík skélfileg vondska á móti vors Frelsara þægilegu uppþvatníngum og ástúdlegu lodunum skulu ecki lengur forherda vort hjarta. Af allri sálu og med kjærleiksfullu hjarta, skulum vér þacklátlega vidurkénna allt þad góda, sem hann hefir oss gjort; med sífeldri æfíngu í dygdunum skulum vér leitast vid ad feta í hans fótspor, sem sitt dygda-dæmi hefir oss til eptirbreytíngar eptirlátid. Sína bitru pínu hefir hann ad sönnu fyrir oss lidid, svo sem straff vorra synda, en med henni hefir hann jafnframt gefid oss þvílíkt dæmi uppá þær ædstu dygdir, ad þess líki aldrei fyrr né sídar fundist hefir, og þetta Jesú dygda-dæmi í hans píslum skal æ vera oss munstur í voru líferni. Ad kappkosta, ad líkjast honum æ meir og meir, er því eins fullkomin skylda vor, og hitt er vor huggun og sáluhjálp, ad hann med því, sem

hann leið vor vegna, keypti oss með svo dýru verði. Frá því að eptirfylgja þessu vors Frelsara dæmi, ættum vér eckért að láta oss fæla, hverki heimsins óþakklæti, háð né forsmán; allt eins og hann, egum vér hógværð að sýna vorum ofsóknar-mönnum, þøgn og meðaumkun þeim, sem hata oss, þolinmæði þeim, sem gjøra oss órétt til; ástunda sakleysi, þegar vér erum baktalaðir, og biðja: Faðir! fyrirgéf þeim, því þeir vita ecki hvað þeir gjøra; eins og hann egum vér viljugir að leggja oss undir það, sem vor himneski Faðir vill vera láta, og leitast við að verða bræðrum vorum til uppörvatníngar, gagns og nota; eins og hann, með ljúfu geði líða hvað meðþarf til almennings heilla. Sjái vor himneski Faðir þörf á að brúka harðar typtanir til undirbúníngs sálu vorri til hins eilífa lífsins, egum vér sjálfum oss að afneita, taka krossinn á oss og fylgja vorum Frelsara á eptir, eptir því, sem oss er fremst møgulegt. Ef að vér, eins og hann, yrðum svo staddir, að offra hlytum bænum og tárafølllum, egum vér eins og hann, að géfa Guði dýrðina og vissulega vænta þess, að hann bænheyri oss og hjálpi

til síns himneska ríkis; þó að vér þola mættum óvina vorra baktal og offsókn-ir fyrir vor bestu verk og hreinasta til-gáng, þá látum oss ekki þar við hindra frá að gjöra gott; þó að ástvinir vorir yfirgéfi oss, þegar vér erum í nauðum staddir, þá umberum hann missir með góðu geði, en styrkjum oss því framar í öruggri trú á þeim lifanda Guði. Ef að því koma skyldi, að sála vor yrði yfirgefin, svo vér sæum eckért ljós, enga gleði né huggun, þá látum oss í þvílíkri vorri stærstu neyð hugsa til vors Með-algángara qvala-hróps fyrir vora skuld: Guð minn! Guð minn! því hefir þú yfirgéfið mig! og ecki sleppa traustinu til Guðs, sem mun miskuna sig yfir oss á haggvæmri tíð, og kröptuglega halda oss við sinni kjær-leika, þó vér í þann svipinn yrðum hans ecki varir. En þegar loksins kémur að vorum burtferðar tíma, lát-um oss þá afhenda í hans hendur vorn anda, sem hann hefir endurleyst, þá munum vér, í trúnni til hans, sigra vorn síðasta óvin. Sælir erum vér, þegar vér þannig færum oss Jesú end-urlausn í nyt, þá munum vér, mitt í öllum þessa lífs umbreytíngum, finna

rósemi, og í sjálfum dauðanum líf og krapt. Ó Jesú! þú, sem fyrir oss ert dáinn, géfðu oss náð til að hafa þessi not af þínum dauða. Gjörðu oss allt-af þér æ líkari, og styrk oss til að fylgja þér eins fúslega eptir, hvert sem þú leiðir oss á þeim vegum, sem þyrni-fullir eru, eður hinum, hvar blómstrum er stráð á gøtuna. Þér við hønd framgaungum vér óhultir, því þegar vér njótum þinnar leiðsøgu, mun eng-inn afvegur fá oss leidda af rétta veg-inum. Leið oss, elskulegasti Jesú! ept-ir þínu ráði, og meðtaktu oss loksins til þinnar dýrðar, Amen!

# 81. Hugvekja.

Þér, elskanlegir! hafi Guð elskað oss þannig, þá erum vér og skyldugir að elska hverr annann. 1 Jóh. 4.

Vér erum skyldugir að bera bróður-legann kjærleika hverr til annars, eins og þeir, sem Jesús hefir endurleyst og hverjir vera vilja hans lærisveinar og eptirfylgjendur. Hversu hjartan-lega hefir hann ecki elskað oss og misk-unað sig yfir oss? skyldum vér þá ecki miskun auðsýna meðbræðrum vorum? Fyrir vorar sakir fórnfærði hann sínu

lífi; fyrir oss úthellti hann sínu blódi. Hvernig fáum vér þá endurgoldid þessum vorum sálarvini alla hans trúfesti, sem hann hefir oss audsýnt? O! eckért höfum vér, sjálfir alls þurfandi, þad, sem vér fáum endurgoldid honum med. En þó vér af elsku til hans mettum vorn húngrada bródur, dryckjum þann þyrsta, klædum hinn nakta, komum lítilmagnanum til adstodar, vill þó vor Jesús meta þad eins og vid sjálfann hann gjört væri. Med viljugu hjarta skulum vér láta í ljósi vid hann þetta merki og þenna vott vors backláta hjartalags. Hann gjördist forlíkan fyrir vorar syndir, þó ecki einúngis fyrir vorar, heldur og fyrir allra manna syndir; munu þeir þá ecki allir, hverjum hann þvílíkann kjærleika audsýnt hefir, vera eins dýrmætir, eins mikils metnir af vorum Endurlausnara, og sérhverr af oss, og því skyldum vér þá forsmá nockurn einn af þessum, sem hann hefir svo ástkjæra, og virdir svo mikils? eda skulum vér skammast vor ad kalla þá vora brædur, sem Jesús ecki blygdast ad kalla svo? nei, fjærri sé því! hvernig kynnum vér ad tilheyra Kristi, ef ad oss skortir þau kénniteikn, af hver-

jum hans lærisveinar þeckjast ega? ef ad vér ecki sífeldt høfum oss fyrir augum hans dæmi til eptirbreytni? vér viljum því ástunda ad verda svo sinnadir, sem hann, og kappkosta, ad láta hans kjærleika verda í oss krøptugann, svo ad vér, ef Guds vilji krefur af oss þetta offur, fúsir láta kynnum lífid fyrir brædur vora. En vér grátbænum þig, ó! þú eilífi kjærleiki! ad þú sjálfur viljir géfa oss og innræta hjarta voru þetta hugar-far; án þinnar nádar yrdum vér sífeldt allt eins kjærleikslausir, vanþacklátir og óstødugir og vér híngad til verid høfum; en þegar þinn kjærleiki drottnar í voru hjarta og þinn Andi stjórnar oss, þá leidumst vér framvegis til þvílíks sinnislags, sem hverjum kristnum vel sómir. Géf oss nád, ad efla þad, sem vidfrægja megi þína dýrd og gjør hvern af oss í sinn stad þér líkann í hógværd og mannelsku, svo vér ad þínu dæmi mættum þá leida á réttann veg, er villir fara, vidrétta fallna, hughreysta auma og snúa syndurum aptur til þín. Hversu mørg tækifæri frambýdur oss ecki sérhverr dagur vors lífs, til ad vera þad í raun og veru, sem vér heitum: gód-

ir, kristnir menn? mørgum naudstødd-
um mundum vér hjálpad fá, marga
villuráfandi leidrétt, marga hrasandi
studt og marga ólukkulega gjört lukku-
sæla, ef vér legdum ástundun á hvílík
kristileg gódverk. Mørgum mundum
vér med bænum vorum géta ordid ad
notum, þó vér ecki med ødru fengjum
þeim hjálpad. Æ! láttu, gódi Jesú!
skyldu þessa verda vors lífs mikilvæg-
asta fyritæki, sem vér øllu framar kapp-
kosta mættum ad uppfylla. Vér upp-
lyptum til þín vorum hjørtum og bid-
jum þig: ad álíta allra þinna endur-
leystu naudþurftir. Þegar vér fram-
gaungum rádvandlega fyri þínu aug-
líti, vyrdstú þá ad líta nidur til vor í
nád og géfa oss þá blessun, sem þú hefir
afrekad og lofádir ad veita oss; en þeg-
ar vér í naudum og vandrædum stadd-
ir, felum þér á hendur vor efni og bid-
jum þig um vorar naudþurftir, vyrdstú
þá nádarsamlega ad bænheyra oss af
himnum ofan og veita eptirþreyda
hjálp, þá mun þitt dýrdarfulla nafn
dýrkad og tilbedid verda af øllum þín-
um trúudu børnum, nú og til eilífdar.
Amen!

82. Hug-

# 82. Hugvekja.

Gud vill ad allir menn verdi sáluhólpnir og komist til sannleikssins vidurkénníngar. 1. Tím. 2.

Svo eru þau hjálpar medøl mørg og krøptug, sem nádarríkur Gud hefir oss í tje látid, til frelsis vorum sálum, ad vor er eintóm skuldin, ef vér ecki færum oss þessi medøl verduglega í nyt og sjálfa mættum vér sárlega naga oss og ásaka, ef vér færum þeirrar farsældar á mis, sem oss er gefin ad ega vissa von um ad ná. Gud hefir gjørt allt, sem verda mætti oss til hjálpar, en vér høfum ecki þyggja viljad þessa frambodnu hjálp. Allir hans velgjørníngar og rádstafanir um oss hafa til þess midad, ad gjøra oss sáluhólpna, en sjálfir høfum vér unnid svo, ad vor fordæmíng aukast mátti. Allt hvad Jesús leid, hefir hann lidid til ad frelsa oss frá løgmálsins bølvun, en hversu opt forsmádum vér fríviljuglega þá blessun, sem hann afrekadi oss? hann lét eckért ógjørt, er oss leida kynni til betrunar, en vér forherdtumst því framar; hann vildi vora sáluhjálp, en vér sjálfir fordæmíngu vora; hann vildi géfa oss himininn, en vér fávísir dárar, vér vøldum þann veg,

er oss leida mátti í hinn ólukkulegasta samastad; um þetta munu á sídan allt of margir eilíflega ófarsælir bríxla mega sjálfum sér, þad mun þá naga þá, og þad mun óaflátanlega þeirra píslir auka. Med hvílíkum átløgunum mun þeirra egin samvitska fordæma þá, og þeir sjálfir vidurkenna þann Guds dóm réttvísann, sem yfir þeim gengur. Jesú blód, sem þeirra vegna einnig úthellt var, mun yfir þeim hefnd hrópa. Sá ødrum huggunar-ríki þánki, ad þeir seu endurleystir, fær ad eins aukid á sorg þeirra og eilíf, en offein, ydran mun þá sífeldt qvelja. En vér, vér lifum enn, og enn þá mun yfirbót vor og ydran verda oss nytsamleg, og þó allsvaldanda Gudi þóknadist nú ad burtryckja oss úr heimi þessum, mættum vér þó játa, ad hann allt hefir til þess gjört, ad vér verda mættum sáluhólpnir, en þarhjá vidurkenna þverúd vora og forakt vid hans nád; vér mættum sanna dóminn réttvísann, sem hann yfir oss uppsegir. En þú, þolinmódi miskunar-ríki Gud! þyrmdu oss enn, já, gefdu oss enn þá tíma til ad ydrast vors óþacklætis og þverúdar! vorar syndir, med hverjum vér vanvyrdt hofum Jesú for-

þénustu, ógna oss; æ! lát vora særdu samvitsku, finna rósemi, finna huggun vegna þeirra písla, sem vor Jesús polad hefir. Lát oss ecki leidast til örvæntíngar af áklögunum samvitsku vorrar, heldur finna hugar-hægd í því forlíkunar blódi, sem vor Endurlausnari hefir úthellt; og hafi sú qvöl, sem hann vor vegna poldi, híngad til verid ávaxtarlaus á sálum vorum, æ! lát hana þó ecki verda þad hédan af; allrasíst þegar ad því kémur, ad vér yfirgéfa skulum heim þennann. Láttú þér ecki leidast, med þinnar nádar sáluhjálplegu verkunum, ad hræra vort hjarta, og géf ad þad hlýdid, viljuglega fylgi þinni röddu; en þú vor dýrmætasti Endurlausnari! virdstú óaflátanlega ad bidja fyrir oss, og med þínum Guddóms krapti ad beygja vor hjörtu. Þó oss synjad verdi allra heims heilla og gledi, viljum vér med rólegu gédi umbera þad, þegar ad eins þín pína ecki verdur á oss ávaxtarlaus; lát hana æ vera vora einustu huggun í lífinu, vorn styrk í lífsins þreyngíngum og mótlæti, og loksins vora endurnæríngu í daudanum, einkum þá, þegar umlidnar syndir hrella oss, þegar vor vaknada samvitska ógnar oss, þegar

grafarinnar og dómsins nálægd gjörir oss óttafulla. Æ! vertú oss þá nádugur, ó Jesú! og styrk oss med krapti þíns dauda, ad fá sigradann allann ótta, hrædslu, efasemd og ógnanir. Amen!

## 83. Hugvekja.

Eg held alla hluti skada ad vera, á móti ágæti þekkíngarinnar vors Drottins Jesú Krists. Phil. 3.

Híngad til höfum vér svo lengi hugsunarlaust lifad um syndir vorar og straffid, sem vér höfum fyrir þær verdskuldad, ad fáum sinnum hefir oss þad í hug hvarflad, er vekti hjá oss minníngu vorra misgjörda, en hversu mjög mættum vér þó ecki óska oss, ad fram=ana ecki alltaf í svo stræffunar=verdu þánkaleysi, þar þó einhverntíma mun ad því koma, ad margfjöldi synda vorra verdi oss berlega settur fyrir sjónir; þegar samvitskan loksins vaknar af andvaraleysisins svefni, mun vort tilfinníngarlausa hjarta þó loksins finna til sinnar eymdar, og guddómlegrar reidi=þúngi leggjast, svo sem óbærileg byrdi, á sálu vora; og þó ad þetta beri nú ecki svo brádlega ad, munum vér þó síst verda eins rólegir og umhyggjulausir og nú, um afdrif vor, þegar daudinn nálægist.

O! þá mun allt, það ógnarlega, sem flýtur af andvaraleysinu, sameinast, og sú byrði samvitskunnar, sem vér nú finnum svo lítið til, verða svo tvöfaldt þýngri; þegar ver þá sjáum óteljandi fjölda synda, sem vér drýgt höfum, þegar all-nálægur dauði og dómur ógna oss, þegar engin rósemi er framar í vorum beinum, né huggun í hjarta voru, hvaða vægðar, hvaða hælis er þá að leita eða vænta fyrir oss, nema í þinni dýrmætu pínu, ó Jesú! með hverri þú forlíkað hefir fyrir vorar syndir. Einkisverdt munum vér þá finna það, sem vér áður brúkað höfðum til að friða og svæfa með samvitsku vora; forgéfins munum vér þá leita allra meðala til rósemdar sálu vorri; eckért, öldúngis eckért munum vér þá reyna að géti styrkt eða gladt oss deyandi, nema dauði og pína vors Drottins Jesú Krists. Allt þetta vitum og þeckjum vér fyrirfram, en því leitum vér nú ecki þegar, fyrr enn sótt og dauði aðkémur, þessarar kröptugu huggunar? því látum ver hann ecki í lífinu vera vort einasta athvarf, sem í dauðanum má einn vera vor einasta sáluhjálp, ef vér viljum klacklaust afkomast? því leit-

um vér oss ecki nú þegar á heilbrigdu døgunum róssemi fyri sálu vora, ádur enn ángistarinnar tími adkémur? nema þú siálfur, gódi Gud! hrærir og tilreidir vor hjørtu, munum vér til endaloka fram-ana í voru andvaraleysi; settú oss því skírlega fyrir sjónir syndir vorar, svo vér skelfast megum fyrir þeirri ólucku, sem þitt løgmál hótar oss, og þinni reidi, sem vér bøkum oss med sømu yfirtrodslum; en hugga þat hjá vort hjarta med því, ad afmála fyrir oss þá fridþægíngu, sem skén er fyrir þinn Son Jesúm; láttú oss í honum finna hreinsun vorra synda og frelsun frá fordæmíngu. Þú hefir, ó! Gud! útgéfid hann til frelsis øllum syndurum, svo ad fyrir hann einann er sáluhjálpina ad finna. Veri hann því, sem endurleysti oss af syndum og eymdum vorum, øll vor huggun og von; allt vort traust setjum vér til hans miskunar, sem forlíkadi fyrir allar þær misgjørdir, er vér drýgt høfum og drýgja munum; þitt alskygna auga sjer fyrir þær syndir, sem vér í qvøld eda á morgun munum styggja þig med; en, þyrm oss, vegna vors Frelsara Jesú Krists! med hans adstod viljum vér fordast all-

ar syndir, en áſtunda ad framgánga rádvandlega fyri þér. Styrk oſs í þeſsum áſetníngi, ſvo líferni vort verdi til dýrdar þér, ſem dáinn og uppriſinn ert fyrir oſs, þá mun allt, ſem oſs mætir, verda oſs heillaſamt, en vér viſsir um þína vernd og elſku um tíma og eilífd.

## 84. Húgvekja.

En —, þér erud komnir til fjallſins Zíon og til borgar lifanda Guds, til hinnar himneſku Jerúſalem, til Englanna mørgu þúſunda og til ſafnadar og ſamkundu frúmgétinna, hverra nøfn ſkrifud eru á himnum, og til Guds, ſem er allra Dómari, og til Medalgaungu-manns ens Nýa Teſtamentis, Jeſú. Ebr. 12.

Vér, ſem egum ecki hér í tímanum nema ſtutta ſtundar-dvøl, getum enganveginn gjørt oſs ljóſa þánka um eilífdarinnar varanlegleika, þó vér margfalda vildum þá ſtærſtu tølu, ſem vér fáum uppqvedid, já, þó vér reiknudum hvert ſandkorn í ſjónum á móti þúſund árum, og mældum þar eptir eilífdina, getum vér þó alls enga greinilega ímindun gjørt oſs um hana, því eilífdarinnar ára-tala hefir engann enda. Þeſsi oſs óſkiljanlegi varanlegleiki eilífdarinnar ſkal vera oſs krøpt-

ug upphvatníng, ad haga þannig øll-
um vorum fyrirætjum og athøfnum á
medan vér lifum í heimi þessum, ad vér
gódri hlutdeild náum í eilífdinni, og
lifa mættum þenna ókomna ára-fjølda
fullsælir. Jafnvel þó vér fáum ecki
med þessum líkhamans augum sjed
sælu þá, sem hinir réttlátu hlotid hafa
í bústødum útvaldra, viljum vér því
optar yfirvega þad, sem heiløg Ritn-
íng hefir oss um þeirra ásigkomulag
opinberad, og þar af leita oss full-
komnari vissu um þeirra sælu. Þó
himininn sé oss ennþá, sem óþeckt land,
viljum vér því optar virda fyrir oss
vors Guds og Frelsara kjærleika,
sem hefir heitid oss í honum ei-
lífri sælu-vist. Vér viljum yfirvega
þær mikilvægu útréttíngar, sem hann
hefir gjørt til þess ad ávinna oss í
himninum eignar-rétt; þá óútmálan-
legu mædu, sem Jesús undirgéckst, til
þess ad fá oss verduglega tilreidt und-
ir vistarveru þessa samastadar, sem þó
kostadi hann svo margar andvarpanir,
svo mørg tár og svo bitrann dauda,
skulum vér setja oss fyrir sjónir. Þar
af fáum vér getid nærri, hversu mikil
súl sæla vera megi, sem vér njóta mun-

um í eilífdinni. Finnist tídin oss laung, þángad til vér náum inngaungu í þenna sæluſtad, rennum á medan áugunum þángad á undan oss og hugleidum hverſu lítill og ómerkilegur tíma-púnktur oss virdast muni, jafnvel hinn lengſti manns-aldur á jördunni, þegar vér lifad höfum í þessari sælu þúsundſinnum þúsundir ára; en vér þurfum ecki ad renna þaunkunum ſvo lángt til ókomnu tímanna, til ad sannfærast um, hverſu ſtutt líf þetta er; látum oss ad eins íhuga, hverſu ódum þau ár eru útrunnin, ſem vér lifad höfum híngad til; hverſu margir medbrædra vorra líf ſitt enda munu á þessari nóttu, og máſké einhverr af oss, þegar vér minnſt ætlum, verdi í þeirra tölu, ſem daudinn á henni yfirfalla kann. Vor heilbrigdi líkhami gefur oss enga fullviſſu um þad, ad vér aflifad fáum þessa nóttu; margir af þeim, ſem eins heilbrigdir og vér, lögdu ſig til hvílu ad qvöldi, lágu kaldur nár, ádur enn morgun-ſólin yfir þeim upprann; eda má ecki margur af oss, ſem erum til ára komnir, einatt finna til umbreytíngar og veikleika í líkhama ſínum, ſem þegjandi mætti

vekja oss grun um það, að vér høfum ecki að stóla uppá lánga lífdaga? og hvernig fáum vér viðurkénnt þenna sannleika, og þó undir eins framgengið í sinnulevsi, og þó undir eins bundið vorn huga við það jarðneska, og þó undir eins verið umhyggjulausir fyrir eilífðinni? en svo er þó varið voru blindaða hjarta; sérhver sannfæríng um dauðans nálægð, gjørir að eins mjøg litla verkun í sálu vorri. Vér framgaungum á meðal enna deyjandi; vér finnum sjálfir, að vér dauðlegir erum, og þó lifum vér eins og vér alls engann missir hefðum að óttast; vér metum vora stuttu tíð svo lítils, eins og vér vænta mættum, að gjørvøll eilífð væri hér við jørðu bundin; innprenta þú, ó Guð! þann sannleika djúpt í vorar sálir, að vor hérvistar tíð er stutt, svo vér mættum vitrir verða; kénn oss að hugleiða, að líf þetta er eckért, en eilífðin allt. Styrk vora trú, svo að vér æ hlýðum þér, en ecki heimsins fláráðu ginníngum, láttú vor hjørtu æ vera hjá þér, hvar vor fjársjóður er, og bera að eins møguleguslu umhyggju og ástundun fyrir því, að oss eilíflega megi vel vegna.

# 85. Hugvekja.

— Auga þitt, Drottinn! á mig sjer, allstadar ertú nærri mér.

Efalaust hlýtur sú íhugun ad vera þeim ógnarleg sem elska lestina, ad Gud er alvís og allstadar nálægur; hversu óttafullur má hann ecki verda, þegar hann hugleidir, ad Guds alskygna auga sjer þær andstyggilegu syndir, sem í leyndum drýgjast, og ad allar ránglætingar eru honum augljósar, sem huldar vera kynnu fyrir manna sjónum; hversu mætti honum ecki bregda vid, þegar hann hugsar um þad, ad þessi Gud þeckir alla þá ránglátu vegu, sem hann gengid hefir, öll þau smánarlegu medöl, sem hann brúkad hefir til framqvæmdar sínum fyrirtækjum, ad hann sjer hans leynilega hatur, hans girnda-bruna, hans hulduslu lystíngar og alla hans hjartans þánka? og þegar hann þá yfirvegar, ad þessi Gud, fyrir hverjum öll vidurstygd hans lastafulla hjarta er opinber, hefir endalaust og ótakmarkad vald til ad gjöra sáluhólpinn og til ad fordæma og ad engin manneskja fær umflúid hans straff, hversu má þá ecki syndarinn

